# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

L. ÁR

WINNIPEG, MANITOBA
1969



# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephanson, skáld
Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gilson, U. of M. Pres.
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor
Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson
Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld
Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor
Rt. Rev. C. V. Pilcher, Sydney, Australia
Dr. John C. West, fyrrv. forseti U. of N.D.
Dr. Vilhjálmur Stefánsson
Thor Thors, sendiherra
Hon. Gudmundur Grimsson, Bismark
Mrs. Kristin Thorsteinsson, Gimli
Dr. Thorbergur Thorvaldson, Saskatoon
Guttormur J. Guttormsson, skáld
His Excellency the Honourable Vincent Massey, former Governor-General of Canada. Hon Patron
George P. Vanier, D.S.O., M.C., Governor-General of Canada Hon. Patron
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður
Sigurður Þórðarson, söngstjóri
Dr. Árni Helgason, raffræðingur

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1968

## A. Verndarar (Patrons)

Dr. Kristján Edjárn, forseti Ísands

His Excellency the Right Honourable
Roland Michener, C.C., C.D.
Governor General of Canada

Dr. Ásgeir Ásgeirsson, fyrrverandi forseti Íslands.

## B. Heiðursfélagar (Honorary Members)

Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
**J. T. Thorson, fyrrv. yfirdómari, Ottawa, Ontario**
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Victoria B.C.
Dr. Helgi P. Briem, fyrrv. sendiherra, Reykjavík, Ísland
**Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.**
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, próf. emeritus, Reykjavík, Ísland
**Gunnar Thoroddsen, sendiherra, Denmark.**
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Manitoba
Hon. John G. Diefenbaker, fyrrverandi forsætisráðherra Kanada
Hon. Dufferin Roblin, fyrrverandi forsætisráðherra Manitobafylkis
**Guðmundur Í Guðmundsson, fyrrv. utanríkisráðherra Íslands**
Sigurður Sigurgeirsson, bankaritari, Reykjavík, Ísland
Ólafur Hallsson, Eriksdale, Manitoba
Dr. H. H. Saunderson, President University Manitoba
Dr. Finnbogi Guðmundsson, Reykjavík, Ísland.
Einar Baldvin Guðmundsson, formaður H/F Eimskipafjelags Íslands.
**Bjarni Benediktsson, forsætisráðherra Íslands**
**Grettir Leo Johannson, ræðismaður, Winnipeg, Man.**
**Ingibjörg Jónsson, ritstjóri Lögbergs-Heimskringlu, Winnipeg, Man.**
Ambassador Pétur J. Thorsteinsson, Washington, D. C.
Séra Philip M. Pétursson, Winnipeg, Manitoba
Emil Jónsson, Utanríkisráðherra Íslands
Hermann Pálsson, prófessor
Hon. George Johnson, Menntamálaráðherra, Manitoba

**C. Styrktarfélagar**

Dr. and Mrs. Richard Beck

Mr. and Mrs. G. L. Jóhannson

Mr. and Mrs. H. F. Danielson

K. W. Jóhannson

J. W. Johannson

Mr. and Mrs. Guðmann Levy

Mrs. Kristín R. Johnson

Mr. and Mrs. J. T. Beck

Rev. and Mrs. P. M. Pétursson

Deildin „GIMLI"

**D. Life members**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Reykjavík, Iceland

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

Mrs. Margret Beck, Grand Forks. N. Dak.

Brynjólfur Jóhannesson, leikari, Reykjavík, Ísland.

Prof. Dr. Helgi Johnson, R. R. 3 Somerset, New Jersey, N.Y., U.S.A.

Hannes J. Petursson, Toronto, Ont.

1. ÍSLAND

**E. Ársfélagar**

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Seðlabanki Íslands, Reykjavík

2. ENGLAND

The Library, University College, London. Gower Street, W. C. L., England.

3. REPUBLIC OF IRELAND

Dr. James Delargy Director "Irish Folklore Comm," University College, Dublin 2.

**Meðlimir Deildarinnar „Brúin" í Selkirk.**

Mr. and Mrs. Jack Björnson

Stefán J. Helgason

Miss Christie Johnson

Dr. Oli Johnson

Mrs. Jóa Freeman

Mrs. Olla Goodbrandson

Mr. and Mrs. Leifi Skagfjörd

Gestur Jóhanson

Einar Thorvaldson

Mr. and Mrs. Kristinn Goodman

Mrs. Sigrún Nordal

Mrs. Rúna Magnússon

Pete Thorsteinson

Mr. and Mrs. Árni Stefánson

Mrs. Vigdís Johnson

Mrs. Emma Bessason

G. H. Halldórson

Mrs. Óla Magnússon

Valdi Sophu

Mr. and Mrs. Joe Halldorson

Óli Helgason

T. L. Hallgrímson

Mrs. Guðrún Vigfússon

**Deildin „Gimli"**

Forseti:
Mrs. Lára Tergeson

Vara Forseti:
Jón B. Johnson

Skrifari:
Mrs. Laurence Stevens

Vara Skrifari:
Mrs. Ingi Einarson

Gjaldkeri:
Adolf L. Hólm

Vara Gjaldkeri:
Ingólfur N. Bjarnason

Fjármálaritari:
Adolf L. Hólm

Vara Fjármálaritari:
Baldur Peterson

**Meðlimaskrá**

Thordur Anderson
B. V. Arnason
Charles Arnason
Gordon Arnason
Mrs. Guðjón Arnason
Joe T. Arnason
Mrs. Sigrídur Arnason
Mrs. W. J. Arnason
Björn Baldwinson
Mrs. Björn Baldwinson
Helgi Benediktson
Mrs. Soffía Benjamínson
Mrs. Jónína Benson
Timoteus Böðvarsson
T. H. Bjarnason
Ragnheiður Davidson
Mrs. Helgi Demedagh
Einar Jón Einarson
Einar S. Einarson
Mrs. Einar S. Einarson
Harry Einarson
Mrs. Harry Einarson
Ingi Einarson
Mrs. Jónína Einarson
Pálmi F. Einarson
Mrs. G. Eyjólfson
Miss Sigrídur Hjartarson
Mrs. Adolf L. Hólm
Dr. A. B. Ingimundson
Mrs. A. B. Ingimundson
Interlake Insurance Agencies
Helgi Jóhannesson
Jónas G. L. Johnson M.D.
Mrs. J. B. Johnson
Jón V. Johnson
Jónas Th. Jónasson
Kristján Johnson
Ted Kristjánsson
Lestarfélagið — Gimli
Gunnsteinn Magnússon
G. E. Narfason
Mrs. G. E. Narfason
Mrs. Ingibjörg Nelson
Ragnar Nygaard
Dori Peterson
Mrs. Dori Peterson
Gudmundur Peterson
Mrs. F. E. Scribner
Mrs. Daniel Sigmundson
Björn Sigurdson
Miss Gudrún Sigurdson
Mrs. Margrét Sigurdson
S. A. Sigurdson
Mrs. S. A. Sigurdson
Eric Stefansson
Mrs. Eric Stefansson
Stefan Stefansson
Mrs. Stefan Stefansson
Miss Ingibjörg Stefansson
Valdimar Stefansson
Mrs. Valdimar Stefansson
Mrs. Norman K. Stevns
Björgólfur Sveinsson
Mrs. Ingibjörg Sveinsson
S. Th. Sveinsson
Mrs. H. R. Tergesen
Mrs. Guðrún Thompson
Mrs. Amelia Thordarson
Björgvin Thordarson
Miss J. V. Thordarson

**Meðlimir Deildarinnar „LUNDAR" á Lundar**

Ásmundur Freeman
Mrs. Gislína Freeman
Ágúst Eyjólfson
Mrs. Guðrún Eyjólfson
Mrs. Margrét Johnson
Hjalti Johnson
Mrs. Sigrún Johnson
Lárus Johnson
Mrs. Kristín Pálsson
Jón Steinthórson
Mrs. Inga Steinthórson
Mrs. Pálína Eyjólfson
Mrs. Stína Goodman
Kári Pálmason

Mrs. Margrét Líndal
Kári Byron
Mrs. Anna Byron
Ólafur Hallson
Mrs. Guðrún Hallson
Mrs. Margrét Björnson
Hjörtur Hjartarson
Mrs. Rósa Hjartarson
Mrs. Ólöf Hallson
Leslie Johnson
Mrs. Rannveig Guðmundson
Leifur Pálsson
Arnold Erlendson
Mrs. Ragnheiður Magnússon
Mrs. Ingibjörg Rafnkelson
Snorri Rögnvaldson
Óskar Thorgilson
John Guttormson
Mrs. Sigga Guttormsson
Mrs. Helga Scharf

**Meðlimir Deildarinnar „BÁRAN" North Dakota**

**Heiðurs meðlimir:**

Dr. og Mrs. Richard Beck
O. G. Johnson
Fred Halldorson
G. J. Jónasson

**Meðlimir:**

G. A. Gudmundson
Helgi Laxdal
Albert Shepard
Mrs. Gardar Johnson
Frank Hall
Alvin Melsted
Theodor Thorleifson
Magnus Melsted
Augusta Johnson
Mrs. J. A. Hanson
F. M. Einarson
Simon Johnson
Johann Geir
John Magnuson
Victor Sturlaugson
Leo Laxdal
Fred Olafson
Adalsteinn Thomason
Orval Holliday
Duane Byron
Rodney Byron
Stefán Indridason
G. B. Olafson
Thora Halldorson
Ruby S. de Regnier
S. F. Björnson
Einar Einarson
John Einarson
Sylvia Stevenson
Joseph Anderson
Leonard Benson
A. E. Paulson
Helgi Reykdal
Chris S. Gudmundson
Jóhann Gestson
Margret Johnson
Helgi Finnson
Bill Thorsteinson
Ivan Gudjónson

Mrs. John Axdal
S. A. Björnson
Joe Simundson
Freeman Melsted
Mundi Goodman

**Meðlimir Deildarinnar „ESJAN", Áarborg**

**Heiðurmeðlimur:**

Thorbjörg Sigurðsson

**Meðlimir:**

Herdís Eiríkson
Helgi Sigurgeirsson
Mabel Einarsson
Gestur Pálsson
J. K. Johnson
Sigþrúður Sigvaldason
Ragnar Karvelsson
Steinunn Bjarnason
Laugi Johnson
Valgerður Johnson
Ögmundur Markússon
A. S. Johnson
Eymundur Danielsson
Andrés Félsted
Rikka Magnússon
Óli Gislason
Sigríður Vopnfjörð
Helgi Pálsson
Guðni Sigvaldason
Aðalbjörg Sigvaldason
Ragnar Guðmundsson
Gunnar Simundsson
Emily Vigfússon
Björn Einarsson
Gunnar Einarsson
Jakobína Friðfinnsson
Guðjón Stefánsson
Indíana Sigurðsson
Veiga Jóhannesson
Lára Sigvaldason
John Hornfjörð
Páll Stefánsson
Willi Eyjólfsson
María Nordal
Leo Jónasson
Kristín Skúlason
Guðjón Danielsson
Sigríður Brandsson
Benni Daníelsson
Stefán Guttormsson
Jónína Alexanders
Stefanía Sigurðsson
Símon Guðmundsson
Sigurður Sigvaldason
Villi Pálsson
Gestur Vídal
Inda Kristinnsson
Jóhann Jóhannsson
Kristján Albertsson
Wilhjálmur Oddsson
Dóra Magnússon
Einar Vigfússon
Sigurrós Pálsson
Sigfús Hidibrandsson
Helgi Sigurðsson
Valdi Johnson
Guðríður Gíslason
Óli Johnson
Stefán Eyjólfsson
Óli Ólafsson
Jóhann Einarsson
Willi Finnsson
Helgi Jakobsson
Brandur Finnson
Guðrún Jónasson
S. O. Oddleifsson
Elín Einarsson
Björn Árnason
Inga Árnason
Friðrik Finnsson

Beatrice Martin
Sigga Kristjánsson
Binna Jóhannesson
Kristján Finnsson
Olga Anderson
Thórunn Líndal
Jón Thorðarson
Jón Ólson
Axel Eyjólfsson
Sigurjón Eyjólfsson
Thórdís Thompson
Joe Jónasson
Guðrún Magnússon
Grímur Borgfjörð
Ingibjörg Sigvaldason
Sigurður Sigurðsson
Kristján Thorarinnsson
Fanney Sigurðsson
Kristín Benediktson
Sigurður V. Sigurðsson
María Eastman
Halldór Björnson
Gilbert Guttormsson
Sigurður Sigvaldason
Einar Johnson

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**

Hannes Kjartansson
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Margrét Rossback
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**Deildin „Ísland", Morden, Man.**

Forseti
Willie Olafson
Ben S. Einarson
Lorry Einarson
Andy Gíslason
Ingi Olafson
Paul Sigurdson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Lindal
Mrs. Freda Lindal
Mrs. Willie Ólafson
Willie Ólafson
Jóhann P. Thomasson
Thomas Thomasson
Mrs. Kristín Thomasson
Guðrún Thomasson
Janathan Thomasson
Dr. Jon Guðmundson
Arni Gillies
Paul Sigurðson

**„Frón", Winnipeg**

Forseti
Skúli Johannson
V. Forseti
Haraldur Bessason
Skrifari
Páll Hallson
V. Skrifari
Hrund Skúlason
Féhirðir
Jochum Asgeirsson
V. Féhirðir
Heimir Thorgrímson
Fjármálaritari
Gunnar Baldvinsson
V. Fjármálaritari
V. Lárusson

**Æfifélagar**

Ævifélagar:
Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Walter Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld

**Meðlimir**

Mr. and Mrs. John J. Arnason
Mr. and Mrs. Jochum Asgeirsson
Mrs. Oddny Asgeirson
Mrs. Shirley Block
Miss Thorbjorg Brynjolfson
Mr. Olafur Bjarnason
Miss Steinunn Bessason
Prof. and Mrs. Haraldur Bessason
Mr. and Mrs. J. T. Beck
Mrs. Albertina Benson
Mr. R. Bergsson
Mr. Andres Bjornson
Mr. Olafur Bjornson
Mr. Skuli Böðvarson
Mr. and Mrs. N. O. Bardal
Mr. and Mrs. Gunnar Baldwinson
Mr. Friðbjorn G. Davidson
Mr. and Mrs. H. F. Danielson
Mrs. R. Davidson
Mrs. Carolina Dunning
Mr. and Mrs. Thorsteinn Eastman
Mr. Gunnar Erlendsson
Mr. and Mrs. Paul
Mr. Arni G. Eggerston Q.C.
Mr. Jens Eliasson
Mrs. Olafia Finnbogason
Mr. Fred Fridfinnson
Mr. and Mrs. S. A. Freeman
Dr. V. J. Eylands
Miss Lily Eyjolfson
Mrs. Asa Fridrikson
Mrs. Ingibjörg Goodridge
Mr. and Mrs. Magnus Gunnlaugson
Mrs. R. Gislason
Mr. and Mrs. Páll Hallson
Mr. and Mrs. H. B. Hallson
Mr. and Mrs. Ben
Mr. H. L. Hallgrimson
Mrs. Eric Isfeld
Mr. Thorsteinn Isleifsson
Mrs. Rosa Johannson

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FIMMTUGASTI ÁRGANGUR 1968

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

**Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi**

1969

# Efnisyfirlit



Herra Kristján Eldjárn, forseti Íslands

# Nýr heiðursverndari Þjóðræknisfélagsins

Forseti Íslands, herra Kristján Eldjárn, hefir nú gerzt heiðurverndari Þjóðræknisfélagsins. Samir því, að hann sé kynntur lesendum þessa rits með nokkrum orðum.

Kristján Eldjárn er Svarfdælingur að ætt og uppruna, fæddur árið 1916 að prestsetrinu Tjörn í Svarfaðardal, sonur þeirra hjóna, frú Sigrúnar Sigurhjartardóttur frá Urðum í Svarfaðardal og Þórarins Kristjánssonar Eldjárns á Tjörn.

Ungur að árum hóf Kristján nám við Menntaskólann á Akureyri. Brautskráðist hann þaðan vorið 1936. Hóf hann síðan nám við Hafnarháskóla og lauk þar fyrri hluta meistaraprófs í fornleifafræði. Vegna heimsstyrjaldarinnar síðari varð ekki af frekara námi í Höfn, heldur hvarf Kristján þá, eftir nokkra dvöl á Akureyri sem kennari við Menntaskólann þar, að Háskóla Íslands og lauk þaðan meistaraprófi í íslenzkum fræðum vorið 1944. Árið 1957 lauk hann svo doktorsprófi í heimspeki frá sama skóla.

Árið 1947 var Kristján Eldjárn skipaður þjóðminjavörður við Þjóðminjasafn Íslands. Féll það þá brátt í hans hlut að koma safninu fyrir í nýjum húsakynnum. Vissulega voru störf þjóðminjavarðar innan veggja nýju safnbyggingarinnar ærið hlutverk, en sá böggull fylgdi skammrifi að hafa eftirlit með jarðgrónum þjóðminjum, ef svo mætti segja, um allt Ísland og stjórna uppgreftri fornleifa, hvar á landinu sem þær kynnu að skjóta upp kollinum.

Í embætti þjóðminjavarðar lét Kristján Eldjárn sér ekki nægja að pússa og merkja gamla muni, heldur gerðist hann mikilvirkur og greinargóður túlkandi fornminja og annarra menningarlegra verðmæta. Rétt áður en hann tók við formennsku í Þjóðminjasafni hafði Kristján staðið að nýrri útgáfu **Sturlunga sögu** með tveimur öðrum fræðimönnum. Helztu rit, sem komið hafa frá hans hendi síðan, skulu nú talin: **Rústirnar í Stöng** 1947, **Gengið á reka**, tólf fornleifaþættir 1948, **Um Hólakirkju** 1950, **Kuml og haugfé úr heiðnum sið á Íslandi** (doktorsritgerð) 1956, **Stakir steinar**, tólf minjaþættir 1961 og **Hundrað ár í Þjóðminjasafni** 1962. Þennan lista mætti lengja talsvert. Hér skal þó aðeins minnzt á kynningarit um íslenzka list á fyrri tíð og myndskreytta bók um Ísland, en þessi verk hafa komið út á erlendum tungumálum og farið víða. Dr. Kristján hefir verið í ritstjórn hins mikla safnverks **Kulturhistorisk Leksikon** for nordisk middelalder fra vikingetid til reformationstid. Hefir hann og skrifað greinar í það verk. Frá 1949 hefir hann og verið ritstjóri **Árbókar Hins íslenzka fornleifafélags** og á í því riti margar fræðilegar athuganir og greinar.

Fjölmargir fræðimenn, bæði innan lands og utan, hafa þegið leiðbeiningar og hjálp dr. Kristjáns Eldjárns, enda munu þær furðumargar bækurnar, þar sem leiðsagnar hans er getið í formálsorðum. Mest er þó um það vert, að Kristján Eldjárn

hefir skapað sér traust samband við alþjóð með því að inna störf sín þannig af hendi, að bæði honum og þjóðinni væri sæmdarauki að. Mönnum hefir jafnan geðjast framkoma hans vel, hver sem í hlut átti og hvort sem hans orðsendingar bárust mönnum í formi talmáls eða ritmáls.

Hinn nýi forseti Íslands er drengilegur maður bæði í sjón og raun. Íslenzkur er hann í háttum, og ber framkoma hans öll vott um menningarlegt uppeldi og víðtæka menntun.

Kona forsetans, frú Halldóra Ingólfsdóttir Eldjárn, gat sér orðstír á menntabrautinni eins og maður hennar. Forsetafrúin er Ísfirðingur að ætt, dóttir þeirra hjóna, frú Ólafar Jónsdóttur og Ingólfs Árnasonar. Börn forsetahjónanna eru fjögur: Ólöf, Þórarinn, Sigrún og Ingólfur.

H. B.



**Halldóra Ingólfsdóttir Eldjárn, forsetafrú**

GÍSLI JÓNSSON:
Þrjú kvæði

# Draumurinn

ný biblíusaga

Hún sat á morgni lífsins við sundin himinblá,
er sólin gyllti löginn töfrabjarta,
og golan þaut í laufi — og lífsins ófyllt þrá
þá lyfti sér til flugs í ungu hjarta.

Og hjartað fylltist gleði, og hugfangin hún stóð:
Ó, hvílík tign og dýrð og unaðsljómi!
Er eilíf þessi fegurð, er eilíf þessi glóð,
er eilíft líf í hverju þessu blómi?

Er eilíft þetta lífsform, sem almættið mér gaf —
mun aldrei þessi dagur líða að kveldi?
En drottinn sat í horni og hlýddi á hennar skraf,
og hvíslaði í sínu guðdóms veldi:

Það líf, sem hér þér birtist, er eilíft áframhald,
þeim örlögum þó háð, að deyja og fæðast.
Í fyrstu þó eg hugði að setja í sjálfs þíns vald,
að sjá um eilífð — gleðjast, þrá og mæðast.

Og mærin reis að bragði og lyfti steini úr stað
og stundi þungt: í óvissu ei þreyi eg:
Ef fleygi eg þessum steini, og hann flýtur landi að,
þá fjarar aldrei líf mitt, sökkvi 'ann dey eg.

Og steinninn sökk í djúpið og aldan geystist grett,
og gráar slæður fyrir sólu byrgðu.
Þú kastað hefir teningnum, og kosið einnig rétt —
hvað kóngur lífs, og úrskurðinn ei syrgðu.

Þú áttir fagran draum, sem þó endasleppur var,
en innst í hjarta von um hann þó geymir.
Nú leitar þú og undrast, þótt aldrei fáist svar;
og enginn deyr, sem glæsta hugsjón dreymir.

# Vorþrá

Kom vorsins dís með ástararma bjarta,
leið anda minn.
Eg hníg í auðmýkt enn að þínu hjarta —
þinn unað finn.
Ó, still þú vorsins gullnu gígjustrengi
með gleðinið,
og lát þá hljóma hátt og blítt og lengi
mitt hjarta við.

Leið mig í anda út til blárra strauma
með álftasöng,
eða á fráum færleik stríða tauma
um fjallagöng.
Það gerir minnst, þótt stundin flughröð finnist,
sem fegurð gaf,
því elfur lífs á eyrum tímans grynnist
við yzta haf.

---

# Það var

Það var, það var, nú er það ekki lengur,
að út við leiddumst tvö,
því árin flugu í flýti, eins og gengur;
við fjölguðum uppí sjö.
Svo eftir vegferð ærið langa
því örlög breyttu grimm,
að út rann tveggja æviganga,
svo eftir stóðu fimm.
Nú treð eg, eftir áratugi, óstyrkur og seinn,
einn! —

Dr. RICHARD BECK:

# Hálfrar aldar afmæli Þjóðræknisfélagsins

Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi á sér hálfa öld að baki snemma á árinu 1969. Hefir saga félagsins fyrstu 45 árin verið all ítarlega rakin í þessu riti í ritgerð dr. Rögnvaldar Péturssonar „Þjóðræknisfélagið 20 ára“ (1939) og í ritgerðum mínum „Aldarfjórðungsafmæli Þjóðræknisfélagsins“ (1944) og „Þjóðræknisfélagið 45 ára“ (1963). Hér verður því einungis stiklað á meginatriðum í stofnsögu félagsins og starfssögu þess fram eftir árum, en nánar dvalið við starf félagsins síðustu fimm árin, þar sem saga þess tímabils hefir eigi áður verið skráð.

### Forsaga og stofnun

Því fór fjarri, að Þjóðræknisfélagið sprytti allt í einu upp úr óundirbúnum jarðvegi. Það átti sér langa forsögu. Stofnun þess stóð djúpum rótum í þjóðernislegri og menningarlegri viðleitni Íslendinga vestan hafs frá upphafi vega þeirra hér í álfu. Félagið á rætur að rekja allar götur aftur til fyrsta Íslendingafélagsins vestan hafs, félagsskaparins „Íslendingafélag í Ameríku“, sem Íslendingar í Milwaukeeborg í Wisconsinríki í Bandaríkjunum stofnuðu á þjóðhátíð sinni þar í borg 2. ágúst 1874, er jafnframt var fyrsti þjóðminningardagur Íslendinga í Vesturheimi. Forseti þessa félags þeirra var séra Jón Bjarnason, en ritari Jón Ólafsson skáld, og er frumrit laga félagsins með eiginhendi Jóns, góðu heilli, enn við lýði. Tók ég upp í ritgerð mína 25 ára afmæli Þjóðræknisfélagsins þær málsgreinar úr lögum „Íslendingafélags í Ameríku“, sem sérstaklega fjalla um markmið þess og starfssvið, og þurfa menn eigi annað en bera þær málsgreinar saman við stefnuskrá Þjóðræknisfélagsins, til þess að sjá skyldleika þeirra markmiða í höfuðatriðum. (Lög „Íslendingafélags í Ameríku“ eru prentuð í **Almanaki Ólafs S. Thorgeirssonar** 1946, en um þjóðhátíð Íslendinga í Milwaukee, vísast til ritgerðar dr. Rögnvaldar Péturssonar um það efni í **Tímariti Þjóðræknisfélagsins** 1933).

Beinna áhrifa frá Íslendingafélaginu í Milwaukee gætti hins vegar í stofnun Íslendingafélags í Winnipeg 1877 og í hliðstæðum félagsskap í íslenzku nýlendunni í Minnesota snemma á árum.

Það er því langt frá því að vera talað út í bláinn, þegar Þorsteinn Þ. Þorsteinsson rithöfundur velur fjórða kafla annars bindis **Sögu Íslendinga í Vesturheimi** fyrirsögnina „Félagsandinn frá Milwaukee“, og rekur, þeirri nafngift til staðfestingar, áhrifin þaðan með ýmsum hætti víðsvegar í byggðum Íslendinga vestan hafs. Stendur Þorsteinn því

á traustum sögulegum grunni, er hann segir: „Þessi „Milwaukee-andi" skapaði síðar Íslendingadaginn, 2. ágúst 1890, og Þjóðræknisfélagið, 1919." Félagið er því arftaki eldri félaga, og mætti svo að orði kveða, að í stofnun þess hafi, beint og óbeint, fléttazt saman söguvígðir þræðir íslenzkrar þjóðræknisviðleitni vestan hafs líkt og geislar í brennigleri.

Ekki var heldur hrapað að stofnun Þjóðræknisfélagsins sjálfs, og vísast um það meginatriði til fyrrnefndra ritgerða um sögu þess fyrstu 25 árin. Á það eitt skal minnzt hér, að eftir langan og rækilegan undirbúning, var félagið stofnað í Winnipeg 27. marz 1919. á fjölmennum fundi fulltrúa úr Winnipegborg og víðs vegar úr byggðum Íslendinga í Norður-Dakota, Saskatchewan og Manitoba. Má með sanni segja, að valið lið manna og kvenna úr Winnipegborg og byggðum Íslendinga utan hennar hafi staðið að stofnun félagsins, eins og skráin yfir þá, er sæti áttu í undirbúningsnefndinni og fulltrúa á stofnfundinum ber órækast vitni. Eru nöfn þeirra framsýnu manna og kvenna, er þar voru að verki, skráð á söguspjöldum félagsins í fyrrgreindum frásögnum um stofnun þess, og nöfn margra þeirra miklu víðar í sögu þess. Skylt er þó að geta hér sérstaklega þeirra stofnenda, er jafnframt voru fyrstu embættismenn félagsins, en það voru:

Forseti:
Séra Rögnvaldur Pétursson

Vara-forseti:
Jón J. Bíldfell

Ritari:
Dr. Sigurður Júl. Jóhannesson

Vara-ritari:
Ásgeir I. Blöndahl

Gjaldkeri:
Ásmundur P. Jóhannsson

Vara-gjaldkeri:
Séra Albert E. Kristjánsson

Fjármálaritari:
S. D. B. Stephansson

Vara-fjármálaritari:
Stefán Einarsson

Skjalavörður:
Sigurbjörn Sigurjónsson

Yfirskoðunarmenn reikninga:
Einar P. Jónsson og
Hannes Pétursson.

Komu flestir þeirra, eins og kunnugt er, síðar við sögu félagsins með mörgum hætti, voru heilhuga stuðningsmenn þess til æviloka, og sumir hverir úr hópnum forustumenn félagsins áratugum saman. Af þessum ótrauðu frumherjum í embættissessi félagsins eru nú aðeins tveir ofan moldar; þeir séra Albert E Kristjánsson, fyrrv. forseti, Blaine, Washington, og Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri, Vancouver, B.C.

Meginverkefni Þjóðræknisfélagsins er þríþætt, og þó að stefnuskrá þess sé nú sem áður prentuð að framan hér í ritinu, tel ég, samhengisins vegna og til fyllri skilnings á hlutverki félagsins, rétt að fella hana inn í þetta yfirlit 50 ára sögu þess. En stefnuskráin er á þessa leið:

1. Að stuðla að því af fremsta megni, að Íslendingar megi

**Stjórnarnefnd Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi 1968-1969.**



Frá vinstri til hægri: fremri röð, frú Kristín R. Johnson fjármálaritari, séra Philip M. Pétursson forseti, frú Hólmfríður Daníelson ritari; aftari röð, Jakob F. Kristjánsson skjalavörður, Baldur H. Sigurdson varafjármálaritari, Páll Hallson vararitari, Grettir L. Jóhannson féhirðir, S. Aleck Thorarinson varaforseti, Jóhann T. Beck varaféhirðir. Á myndina vantar Snorra R. Gunnarsson sérstakan fulltrúa.

verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Réttilega og viturlega er afstöðu félagsmanna til síns nýja heimalands skipað í öndvegissessinn í stefnu og starfi félagsins. Kennir hér, eins og bent hefir verið á í fyrrnefndum ritgerðum um sögu félagsins nokkurra áhrifa frá þeim hugsunarhætti, sem ríkjandi var vestan hafs á þeim árum, þegar félagið var stofnað. En óhætt má þó fullyrða, að hér lýsi sér um annað fram „sú þegnhollustu, sem frá fyrstu tíð hefir almennt talin verið eitt af helztu og rótgrónustu einkennum Íslendinga vestan hafs,“ eins og ég hefi orðað það annars staðar.

En eins og forystumenn Þjóðræknisfélagsins hafa hver eftir annan lagt áherzlu á í ræðu og riti, er hér um meira að ræða heldur en þegnhollustuna eina saman við hið nýja land, þó sjálfsögð sé og mikilvæg. Menn verða að leggja eitthvað á borð með sér, menningarlega talað, til þróunar þjóðarinnar, sem þeir eru orðnir hluti af, eigi þeir að geta talizt fyllilega hlutgengir.

Að þessu grundvallaratriði í stefnuskrá Þjóðræknisfélagsins dró

Stephan G. Stephansson kröftuglega athyglina í kveðju sinni til félagsins nýstofnaðs, hinu snjalla kvæði „Þing-kvöð“, er öndvegi skipar í fyrsta árgangi **Tímarits** félagsins og er í senn þrungið heitri ættjarðarást og lögeggjan til dáða. Hreimmikið er upphafserindið:

Gamla landið góðra erfða!
gengið oss úr sýn,
lengur skal ei sitja og syngja
Sólarljóð til þín!
Nú skal rísa. Hefja hug og
hönd með ljóð á vör,
þar sem yzt á vestur-vegum
verður barna-för.
Verður þinna barna för.

Og svo kemur eggjanin til frjórra athafna, áminningin um það að vera „landi sínu gjöfull nú“, þar sem meginþáttur í tilgangi félagsins er færður í snilldarlegan orðabúning:

Nú skal bera á borð með okkur,
bót við numinn auð,
margar aldir ósáð sprottið
íslenzkt lífsins brauð:
Allt, sem lyfti lengst á götu,
lýsti út um heim,
nú skal sæma sveitir nýjar
sumargjöfum þeim.
Sumargjöfum öllum þeim.

Tvær seinni málsgreinar stefnuskrár Þjóðræknisfélagsins, sem vitnað var til, eru svo hin nauðsynlega undirstaða að túlkun og framkvæmd hinnar fyrstu, viðleitninnar að verða sem beztir og gjöfulastir fósturlandi sínu. En að sjálfsögðu geta menn eigi orðið hinu nýja landi veitandi í menningarlegum skilningi, nema þeir hafi tileinkað sér menningararfleifð stofnþjóðar sinnar, varðveiti þá menningu og geri hana ávaxtaríka í lífi sínu, en í þeim menningararfi felst bæði tunga, bókmenntir og saga þjóðar vorrar, er allar spegla hina sérstæðu lífsreynslu hennar, hugsjónir, sál og einstaklingseðli.

Seinasta málsgrein stefnuskrár Þjóðræknisfélagsins, um aukin og framhaldandi samskipti milli Íslendinga austan hafs og vestan, bendir til þeirrar nauðsynjar, sem í rauninni liggur í augum uppi, að því aðeins verði hin íslenzka menningararfleifð til langframa varðveitt og ávöxtuð vestan hafs, að vér Íslendingar þarlendis stöndum í sem nánustu og stöðugustu sambandi við jarðveg þann, sem hún á rætur sínar í og dregur næringu úr, við ættþjóð vora og vort söguríka og svipmikla ættarland. (Framangreind skilgreining í stefnuskrá Þjóðræknisfélagsins er tekin upp úr erindi mínu „Níutíu ára afmæli vestur íslenzkrar þjóðræknisstarfsemi,“ er flutt var í Háskóla Íslands 1964 og prentað í **Skírni** það ár.)

### Félagsstarfið meðal Íslendinga vestan hafs

Hin þríþætta stefnuskrá Þjóðræknisfélagsins hefir frá stofnun þess og fram á þennan dag verið áttavitinn í starfsemi félagsins, er hvílt hefir sérstaklega á deildum þess víðs vegar um Vesturálfu, því að þær hafa verið og eru máttarstoðir félagsins. Eðlilega hefir það þá verið eitt af aðal verkefnum stjórnarnefndar félagsins á hverjum tíma, að eiga hlut að stofnun félagsdeilda sem víðast og stuðla að framhaldandi starfsemi þeirra. Kynni menn sér sögu Þjóðræknisfélagsins, kem-

ur það einnig í ljós, að deildir þess hafa, um lengra eða skemmra tímabil, verið starfandi í flestum helztu byggðum Íslendinga vestan hafs og í þeim borgum, þar sem þeir eru fjölmennastir. Mátti einnig fram á síðustu ár, eins og ég tók fram í ritgerð minni um félagið 45 ára, segja, að deildir félagsins, að sambandsdeildum þess meðtöldum, brúuðu álfuna frá hafi til hafs, og enn spanna deildir þess mikinn hluta álfunnar, en þær eru þessar taldar í stafrófsröð: „Báran", Mountain, N. Dakota; „Brúin", Selkirk, Man.; „Esjan", Árborg, Man.; „F r ó n", Winnipeg, Man.; „Gimli", Gimli, Man.; „Í s l a n d", Morden, Man.; „Lundar", Lundar, Man.; „Norðurljós", Edmonton, Alberta. Ennfremur er Íslendingafélagið í New York (The Icelandic Society of New York) sambandsfélag Þjóðræknisfélagsins, og náið samband er einnig milli þess og Þjóðræknisfélaganna í Reykjavík og á Akureyri.

Og þegar rætt er um útbreiðslumál Þjóðræknisfélagsins, sæmir vel á þessum merkistímamótum í sögu þess að minna á þá sögulegu staðreynd, að það var fyrir atbeina félagsins, að stofnaður var á sínum tíma sá félagsskapur meðal yngra fólks vors, er síðar varð „The Icelandic Canadian Club" í Winnipeg, þótt það félag bæri önnur nöfn framan af árum. Tillaga um nauðsyn stofnunar s l í k s félagsskapar var rædd og samþykkt á þjóðræknisþinginu 1935, og málinu síðan haldið vakandi á næsta ársþingi, er leiddi til þess, að á þinginu 1937, á samkomu er sérstaklega var h e l g u ð yngra fólkinu, var það stóra spor stigið, að kosin var framkvæmdanefnd í málinu. Sú nefnd, með B. Edvald Olson í broddi fylkingar, á sérstaklega heiðurinn af því, að hafa komið á fót þessum tímabæra þjóðræknislega félagsskap m e ð a l yngra fólksins laust fyrir þingið 1938. Óþarft er að rekja hér frekar feril þess máls, því að forseti félagsins, séra Philip M. Pétursson, ræddi það ítarlega, og rökstuddi með tilvitnunum til frumheimilda, í ársskýrslu sinni í fyrra.

Þó skal þess getið til viðbótar, þar sem um sögulegan atburð var að ræða, að fyrsta samkoma hinnar nýju félagsdeildar y n g r a fólksins („The Young Icelanders", eins og félagið hét þá) var haldin að kvöldi fyrsta dags þingsins 1938 í Sambandskirkjunni í Winnipeg. „Svo var aðsókn, að margir urðu frá að hverfa," segir í þingtíðindunum frá því ári, er birtir skemmtiskrá samkomunnar í heild sinni. Er síðan farið um hana þessum orðum í þingtíðundunum: „Fór samkoman vel fram og verður jafnan skoðuð virðuleg byrjun á starfi hinna yngri Íslendinga." Gísli Jónsson var þá ritari félagsins, en Bergthór E. Johnson þingskrifari. Greinarhöfundi, er þá var varaforseti félagsins, er þessi sögulega og ánægjulega samkoma einnig í fersku minni, því að það kom í hans hlut, að sérstakri beiðni dr. Rögnvaldar Péturssonar, þáverandi forseta, að bjóða hina nýstofnuðu deild yngra fólksins velkomna í Þjóðræknisfélagið.

Var félag þetta, bæði eftir að það var nefnt „Icelandic Junior League" og síðan undir núverandi heiti „The Icelandic Canadian Club", árum saman sambandsdeild Þjóðræknisfélagsins, eins og forseti þess dró at-

hygli að í fyrrnefndri ársskýrslu sinni. Hefir einnig ávalt um margt verið náin samvinna milli þessara félaga, enda fjöldi fólks félagsmenn í þeim báðum.

Skal þá horfið aftur að deildum félagsins og starfi þeirra, en um það ræddi ég all ítarlega í framannefndum ritgerðum mínum um félagið, og fer hér því fljótt yfir sögu. En hverjum þeim, sem kynnir sér starfssögu deilda félagsins fyrr og síðar, eins og hún er skráð í ársskýrslum þeirra í þingtíðindunum í **Tímariti** félagsins, þó að þar sé vitanlega um mjög takmarkaða lýsingu að ræða, fær eigi dulizt það, að deildirnar hafa, þegar á allt er litið, unnið mjög merkilegt og harla fjölþætt starf í þágu þjóðræknismálanna og íslenzkra menningarmála á víðtækari grundvelli vestan hafs.

Auðvitað hafa mismunandi aðstæður gert það að verkum, eins og ég tók fram í ritgerð minni um aldarfjórðungsafmæli félagsins, „að starf deildanna hefir eigi verið jafn margþætt og víðtækt alls staðar, en allar hafa þær með ýmsum hætti auðgað félagslíf og menningarbrag byggða sinna, staðið vörð um arfleifðina íslenzku og haldið á lofti nafni kynstofns vors og hugsjónum.“ Þetta má nú, að öðrum aldarfjórðungi liðnum, með enn meiri sanni segja um starf deildanna, og þá sérstaklega þær, sem enn eru starfandi. Og þó að það verði eigi nánar rakið, skal að verðugu og þakklátlega lögð áherzla á það, hve mikið og fórnfúst starf fjölmargra ónefndra karla og kvenna er að baki starfsemi deilda Þjóðræknisfélagsins víðsvegar um Vesturheim. Eiga þar við orð skáldsins: „Hinn fórnandi máttur er hljóður.“

Í starfi umrædds félagsfólks lýsir sér einnig með eftirminnilegum hætti trúnaðurinn við ætt og erfðir og góðhugurinn til þess félagsskapar, er haft hefir að markmiði sínu um hálfrar aldar skeið, og hefir enn, varðveizlu og ávöxtun þeirra ættar- og menningarerfða meðal Íslendinga hér í álfu.

En í viðleitni stjórnarnefndar félagsins að stofnun deilda og eflingu starfs þeirra — að ræðuhöldum um land vort og þjóð og um íslenzk menningarverðmæti, með íslenzkri sönglist og ljóðalestri, og með myndasýningum frá Íslandi — hafa útbreiðslumálin og fræðslumálin fallið í sama farveg. Auk stjórnarnefndarinnar sjálfrar, eiga þar hlut að máli margir aðrir, er ferðazt hafa á vegum hennar, bæði úr hópi Íslendinga vestan hafs og kærkomnir gestir heiman um haf. Með þeim hætti hefir árangurinn af samstarfinu við Ísland orðið mikilvægur þáttur í starfi deildanna og um leið í starfsemi félagsins í heild sinni. Er margra þeirra góðu gesta heiman um haf, sem hér koma við sögu, getið sérstaklega í afmælisgreinum um félagið, er að framan hafa verið nefndar.

Í þeim ritgerðum hefir einnig verið ítarlega greint frá kennslu íslenzks máls og söngfræðslu á íslenzku af hálfu félagsins og deilda þess, er haldið hefir verið uppi með ýmsum hætti áratugum saman. Jafnframt er í umræddum afmælisgreinum rakin saga hlutdeildar Þjóðræknisfélagsins, beint og óbeint, í stofnun kennarastólsins í íslenzku við Manitobaháskóla, og minnt á það, sem er

hreint ekki lítill eða ómerkur þáttur fræðslustarfs félagsins, að það átti hlut að því að koma upp í Winnipeg almennu íslenzku bókasafni, sem þjóðræknisdeildin „Frón" hefir árum saman starfrækt þar í borg. Hefir bókasafnið notið nokkurs fjárhagslegs stuðnings frá félaginu. Það hefir einnig haft á starfsskrá sinni söfnun íslenzkra sögulegra minja og þjóðlegs fróðleiks vestan hafs, með hreint ekki litlum árangri, einkum hvað snertir minjasöfnunina.

Ennfremur hefir Þjóðræknisfélagið með ýmsum hætti stuðlað að því að halda lifandi minningu íslenzkra landnema vestan hafs, og einnig minnzt með sérstökum hátíðahöldum merkisafmæla öndvegisskálda vorra heima á ættjörðinni. En félagið hefir ekki einungis horft um öxl í þessum efnum. Það hefir átt samleið með samtíðinni og framtíðinni í þeim skilningi, að það hefir með fjársöfnunum stutt á örðugri námsbraut þess íslenzkt listafólk, er getið hefir sér frægðarorð í list sinni, og orðið þjóðstofni vorum til sæmdar. Þó á öðru sviði sé, er maklegt að geta þess, að félagið studdi vesturíslenzka íþróttaviðleitni lengi fram eftir árum.

En um framangreint menningarmál og önnur fleiri, sem Þjóðræknisfélagið hefir haft með höndum og lagt liðsinni á fimmtíu ára ferli sínum, og hér hefir aðeins verið drepið á, vísast til framannefndra ritgerða minna um sögu félagsins, þar sem þau mál eru ítarlega rædd, og getið þeirra, er þar áttu mestan hlut að málum.

Skal nú vikið nokkru nánar að útbreiðslu- og fræðslustarfsemi félagsins síðustu fimm árin, og tekinn upp söguþráðurinn þar sem lauk frásögn minni um það efni í ritgerðinni um félagið 45 ára. Merkasti atburðurinn í útbreiðslumálunum á seinustu árum var það, að Íslendingafélagið í Edmonton, Alberta, gerðist deild í Þjóðræknisfélaginu á ársþinginu 1965, og ber deildin hið fagra nafn „Norðurljós". Var félaginu mikill styrkur í því, að þetta Íslendingfélag sameinaðist því, þar sem mjög blómlegt félagslíf er meðal Íslendinga í Edmonton. Aðrar fjömennustu og athafnasömustu deildir félagsins, eru deildirnar í Árborg, Winnipeg og Gimli. Deildirnar að Lundar, í Selkirk, Morden og N. Dakota eru fámennari, en halda einnig í horfi eftir aðstæðum og styðja málstað félagsins dyggilega. En eftir skýrslum að dæma eru tvær hinar fyrstnefndu bezt starfandi.

Skýrslur forseta félagsins frá síðustu fimm árum bera því vitni, að hann og aðrir í stjórnarnefnd þess hafa á því tímabili, eins og áður var venja slíkra embættismanna þess, unnið að útbreisðlu- og fræðslumálum með heimsóknum til deildanna, ræðuhöldum á vegum þeirra og öðrum samkomum, og með þeim hætti, að ýmsum öðrum félagsstörfum ógleymdum, elft starf deildanna og samheldni félagsmanna, og glætt áhugann á þjóðræknismálum. Í útbreiðslu- og fræðslustarfinu hefir stjórnarnefnd á þessum árum einnig notið liðsinnis ýmissa vina og velunnara félagsins, utan hennar, bæði góðra gesta heiman um haf, er getið verður í kaflanum um samvinnumálin við Ísland, og annarra, svo sem fyrrv. forseta félagsins, dr. Valdimars J. Eylands, og þess, er þetta ritar.

Áður en skilizt er við þennan frásöguþátt um starfsemi deilda félagsins fyrr og síðar og stjórnarnefnda þess að útbreiðslu- og fræðslumálum, og annarri menningarlegri viðleitni, meðal Íslendinga innbyrðis hér vestan hafs, skal þess þakklátlega minnzt, að félagið hefir frá upphafi vega og fram á þennan dag átt fjölda félagsmanna utan deilda þess, er verið hafa því heilhuga stuðningsmenn og hollvinir.

**Sambandið og samstarfið við Ísland**

Frá því að Þjóðræknisfélagið hóf göngu sína fyrir 50 árum hefir sambandið og samstarfið við Ísland, beint og óbeint, verið ein allra mikilvægasta hliðin á starfsemi félagsins, í anda þess meginþáttar stefnuskrár þess: „að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan." Í vaxandi mæli hefir sú brú ætternislegra og menningarlegra samskipta yfir hafið verið byggð frá báðum ströndum, eins og vera ber, og heillavænlegast er báðum aðilum. Síðan félagið hóf starf sitt hafa oss í þjóðræknisviðleitni vorri, með mörgum hætti, verið réttar hendur til stuðnings heiman um haf, og þá ekki sízt með vekjandi og áhrifaríkum heimsóknum margra hinna fremstu og ágætustu manna og kvenna þjóðarinnar. Er þeirra heimsókna minnzt ítarlega í framannefndum afmælisgreinum um félagið. Gerist því engin þörf að endursegja þá hugþekku sögu djúpstæðrar og vaxandi ræktarsemi landa vorra heima á ættjörðinni á því 45 ára tímabili í starfssögu félags vors, sem fyrrnefndar afmælisgreinar taka yfir. Ekki er þá heldur ástæða til þess að segja hér að nýju sögu harla margþættrar þátttöku vor Vestmanna í þeirri brúarbyggingu yfir hafið, sem einnig er ítarlega lýst í ofangreindum afmælisgreinum. Hins vegar, verður nú getið þess helzta, sem gerzt hefir á því starfssviði félagsins síðustu fimm árin.

Ber þar hæst, taldar í tímaröð, heimsóknir dr. Bjarna Benediktssonar,, forsætisráðherra Íslands, sumarið 1964, og herra Ásgeirs Ásgeirssonar, forseta Íslands, sumarið 1967.

Voru þau forsætisráðherrahjónin, dr. Bjarni og frú Sigríður Björnsdóttir, og Björn sonur þeirra, er var með í förinni, heiðurgestir á 75 ára afmæli Íslendingadagsins í Canada, er haldið var hátíðlegt, að viðstöddu miklu fjölmenni, á hinum árlega Íslendingadegi að Gimli, og flutti forsætisráðherra þar aðalræðuna. Að loknum hátíðahöldunum að Gimli ferðuðust forsætisráðherrahjónin og sonur þeirra, á vegum Þjóðræknisfélagsins, fyrst til Argylebyggðar í Manitoba, en síðan, með viðkomu í öðrum byggðum Íslendinga, alla leið vestur að Kyrrahafi. Grettir L. Jóhannson aðalræðismaður og féhirðir félags vors, og frú Lalah kona hans, fylgdu forsætisráðherrahjónunum í ferð þeirra til Vesturstrandarinnar. Flutti forsætisráðherra ræður víða á Íslendingasamkomum í ferð sinni vestan hafs, bæði í Canada og Bandaríkjunum. Þessi heimsókn hans var einnig að því leyti sérstaklega söguleg, að þar var um að ræða fyrstu heimsókn forsætisráðherra Íslands í byggðir Íslendinga vestan hafs.

Heimsókn Ásgeirs Ásgeirssonar

forseta var einnig hin sögulegasta, því að það var í fyrsta sinn, sem forseti Íslands var á Íslendingadegi að Gimli, en hann flutti þar að sjálfsögðu aðalræðuna, við mjög mikla aðsókn. En, eins og kunnugt er, var forsetinn að þessu sinni í opinberri heimsókn til Canada, í boði Canadastjórnar og Vanier landstjóra, í tilefni af aldarafmæli Fylkjasambands landsins. Í för með forseta til Winnipeg var frítt og fjölmennt föruneyti, meðal annarra, Emil Jónsson, utanríkisráðherra, Pétur Thorsteinsson, ambassador, J. P. Sigvaldason, ambassador, og Vilhjálmur Þór, bankastjóri og fyrrv. utanríkisráðherra. Í þessari ferð sinni gafst Ásgeir forseta einnig tækifæri til þess að ferðast víða um sögufrægt byggðarlag Íslendinga í Nýja Íslandi.

Óþarft er að fjölyrða um það, hverjir aufúsugestir forseti Íslands og forsætisráðherra, og föruneyti þeirra, voru Íslendingum vestan hafs, og hve virðulega og innilega þeim var hvarvetna fagnað, bæði af hálfu þarlendra manna og Íslendinga. Ekki þarf heldur að fara mörgum orðum um það, hve mikilvægar slíkar heimsóknir eru til eflingar framhaldandi ættar- og menningartengslum milli Íslendinga yfir hafið.

Á umræddu tímabili í sögu Þjóðræknisfélgasins höfum vér átt að fagna mörgum öðrum góðum og kærkomnum gestum heiman að sem einnig hafa með komu sinni treyst ættar- og menningarböndin.

Vorið 1963 dvaldi dr. Sigurður Þórarinsson jarðfræðingur vikutíma á Manitobaháskóla og flutti fyrirlestra fyrir stúdenta og háskólakennara í jarðfræðideild skólans. Einnig flutti hann fyrirlestra á vegum þjóðræknisdeildarinnar „Fróns“ í Winnipeg. Á hausti sama árs flutti dr. Halldór Halldórsson prófessor, er verið hafði á fyrirlestraferð um Bandaríkin, fyrirlestur um nýyrði í íslenzku fyrir kennara og nemendur tungumáladeildar Manitobaháskóla. Einnig var á ferð hér vestan hafs á því ári Sindri Sigurjónsson, póstafgreiðslumaður í Reykjavík, en hann er umboðsmaður **Lögbergs-Heimskringlu** á Íslandi, og hefir verið vikublaði voru þarfur maður, og þá um leið þjóðræknisviðleitni vorri.

Merkisatburður í starfssögu félagsins árið 1963 var koma Rögnvaldar Sigurjónssonar, píanóleikara, vestur um haf það haust, en frá hinni ánægjulegu heimsókn hans og ágætum hljómleikum í Winnipeg og víðar, á vegur félagsins, er þegar skýrt í grein minni um félagið 45 ára og í skýrslu forseta fyrir umrætt ár.

Gestir á ársþingi félagsin 1964 voru þau Einar B. Guðmundsson, hæstaréttarlögmaður í Reykjavík og formaður stjónarnefndar Eimskipafélags Íslands, og kona hans, frú Kristín Ingvarsdóttir, en með boði þeirra á þingið minntist Þjóðræknisfélagið fimmtíu ára afmælis Eimskipafélagsins. En, eins og alkunnugt er, komu Íslendingar vestan hafs mikið og farsællega við stofnun Eimskipafélagsins, enda fór Einar Guðmundsson mörgum og drengilegum orðum um þá þátttöku þeirra í aðalræðu sinni á þinginu.

Á þjóðræknisþinginu 1965 voru gestir félagsins þau Sigurður Helgason, forstjóri Loftleiða í New York, og frú Unnur Einarsdóttir kona hans.

En Loftleiðir hafa, með beinum flugferðum sínum milli Vesturheims og Íslands, lagt mikinn skerf til eflingar tengslanna milli Íslendinga hérlendis og heima á ættjörðinni, og einnig sýnt Þjóðræknisfélaginu mikla vinsemd. Á lokasamkomu þingsins flutti Sigurður erindi og sýndi sérstaklega tilkomumikla litmynd frá Íslandi, sem Loftleiðir höfðu látið gera.

Vorið 1965 kom Helgi Sæmundsson, formaður Menntamálaráðs, í stutta kynnisferð til Winnipeg, en hann er oss Vestur-Íslendingum að góðu kunnur fyrir ritstörf sín og hlýhug í vorn garð. Seinni part þess sumars ferðuðust þeir séra Benjamín Kristjánsson og Bjarni Sigurðsson allvíða um byggðir Íslendinga vestan hafs í þeim erindum að safna efni í þriðja bindi merkisritsins **Vestur-íslenzkar æviskrár**, og þóttu hvarvetna góðir gestir, enda er útgáfa þessa rits hið tímabærasta og þarfasta verk, og þakkarvert að sama skapi, og engum fremur en oss Vestur-Íslendingum.

Gestir Þjóðræknisfélagsins á ársþinginu 1966 voru þau ambassador Pétur Thorsteinsson og kona hans, frú Oddný Thorsteinsson, ennfremur Brynjólfur Jóhannesson leikari frá Reykjavík. Flutti Pétur ambassador ávarp á samkomu „The Icelandic Canadian Club“ og aðalræðuna á lokasamkomu þingsins. Brynjólfur leikari flutti ávarp á „Fróns“-mótinu og skemmti þar og á lokasamkomu þingsins með upplestri og gamanvísnasöng.

Að þingi loknu ferðaðist hann, á vegum Þjóðræknisfélagsins og deilda þess fyrst til Nýja Íslands og síðan vestur að hafi, og skemmti þar á fjölmennum samkomum. Átti hann þar alls staðar sömu hrifningu að fagna og á samkomum þjóðræknisþingsins í Winnipeg. „Koma hans var mikill merkisviðburður í skemmtanalífi og menningarlífi Íslendinga vestan hafs,“ eins og ég komst að orði í kveðjuávarpi mínu fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins á afmælishátíð Félags íslenzkra leikara í Reykjavík 10. sept. 1966.

Haustið 1967 ferðaðist Jón Rögnvaldsson, garðyrkjustjóri á Akureyri, víða vestan hafs, til þess að kynna sér nýjungar í garðrækt, en heimsótti jafnframt frændfólk sitt í Winnipeg og að Lundar, Man. Hann dvaldi vestan hafs á yngri árum, og hefir síðan haldið tryggð við oss Vestur-Íslendinga og er starfandi í Þjóðræknisfélaginu á Akureyri.

Gestir félagsins á þjóðræknisþinginu 1968 voru þau Hermann Pálsson, prófessor í íslenzku við Edinborgarháskóla, og kona hans, frú Guðrún Þorvarðardóttir, ung dóttir þeirra hjóna var einnig í för með þeim. Flutti Hermann prófessor aðalræðuna á lokasamkomu þingsins. Undanfarna daga hafði hann flutt fyrirlestra við Manitobaháskóla.

Sérstök ástæða er til að geta heimsóknar þeirra Sigurðar Sigurgeirssonar bankaritara í Reykjavík og frú Pálínu Guðmundsdóttur. konu hans, sumarið 1968. Þau voru heiðursgestir á Íslendingadeginum að Gimli 5. ágúst, þar sem Sigurður flutti aðalræðuna, en síðan ferðuðust þau hjónin á vegum Þjóðræknisfélagsins víða um álfuna og heimsóttu Íslendinga í byggðum og borgum. En þau Sigurður og frú hans

voru sérstaklega boðin vestur um haf í viðurkenningar og þakkarskyni fyrir hið mikla og ágæta starf, er hann, sem formaður Þjóðræknisfélagsins á Íslandi, hefir árum saman innt af hendi til þess að greiða götu fjölda Vestur-Íslendinga, er heimsótt hafa ættjörðina, og gera þeim dvölina þar sem ánægjulegasta. Hefir hann í því þakkarverða starfi átt sér við hlið áhugasama og prýðilega samstarfsmenn, meðal þeirra dr. Finnboga Guðmundsson landsbókavörð, er látið hefir sér mjög annt um framhaldandi samband og samvinnu við oss Íslendinga vestan hafs síðan hann fluttist heim um haf. Tekur það einnig til annarra stjórnarnefndarmanna félagsins, sem eru, að því er greinarhöfundur bezt veit: Indriði Indriðason rithöfundur, séra Ólafur Skúlason, Ottó J. Ólafsson fulltrúi, og Sindri Sigurjónsson póstafgreiðslumaður.

Hefir Þjóðræknisfélag Íslendinga átt nána og víðtæka samvinnu við félag vort, og verið því um margt haukur í horni heima á ættjörðinni. Skal hér einungis minnzt sérstaklega á eina hlið þess samstarfs og tekinn upp eftirfarandi kafli úr greininni „Fréttir af þjóðræknisþinginu“, er birtist í **Lögbergi-Heimskringlu** 3. marz 1966, og er eftir ritstjórann frú Ingibjörgu Jónsson:

„Í nokkur undanfarin ár hefir Sigurður (Sigurgeirsson) beitt sér fyrir því, að segulband væri gert og sent á þjóðræknisþingið í Winnipeg með íslenzka söngva, ræður og kveðjur. Hefir þessum sendingum verið tekið með fögnuði af þingheimi og var svo á þriðjudagsmorguninn, þegar hin nýkomna segulbandsspóla var leikin. Sigurður flutti inngangsorð og árnaðaróskir, Vilhjálmur Þ. Gíslason útvarpsstjóri flutti annál ársins 1965, og þess á milli voru kórsöngvar. Veitti þetta fólkinu mikla gleði, sem það lét óspart í ljós.“

Má hið sama segja, hvað undirtektir þingheims snertir, um hliðstætt efni á segulbandi, sem frá Sigurði og Þjóðræknisfélaginu hefir komið vestur yfir álana á þjóðræknisþingin síðan fyrrnefnd fréttagrein var rituð.

En ekki verður svo skrifað um Þjóðræknisfélag Íslendinga í Rvík. og samstarf þess við félag vort, að eigi verði jafnframt og með sama þakkarhuga getið Þjóðræknisfélags Akureyrar, „Vinafélags Vestur-Íslendinga“, er stofnað var fyrir nokkrum árum, og vinnur ötullega að því marki að halda við sem traustustum vináttu- og menningarböndum milli Íslendinga austan hafs og vestan, ekk sízt með höfðinglegum móttökum og fyrirgreiðslum í sambandi við heimsóknir Vestur-Íslendinga til ættjarðarinnar. Stóð þar framarlega í flokki þangað til hann fluttist nýlega til Reykjavíkur hollvinur vor séra Benjamín Kristjánsson, en ásamt honum áttu sæti í stjórnarnefnd félagsins, er ég síðast frétti til, þeir Árni Bjarnarson, löngu kunnur fyrir mikinn áhuga sinn á samstarfi við oss og margháttaða viðleitni í þá átt, og eftirfarandi góðvinir vorir og sumir gamlir Vestur-Íslendingar: Gísli Ólafsson, Jónas Thordarson, séra Pétur Sigurgeirsson, Bjarni Jónsson frá Gröf, Jón Rögnvaldsson og Kristján Rögnvaldsson. Félagsskapur þessi á sér einnig ágætan stuðningsmann,

og oss að góðu kunnan, þar sem er Steindór Steindórsson, skólameistari á Akureyri, er sæti á í ritnefnd **Lögbergs-Heimskringlu**, og látið hefir blaðinu í té lesmál, sem vel hefir verið metið.

Þá skal þess þakklátlega getið, að Menntamálaráðuneyti Íslands hefir árlega haldið áfram „að veita stúdent eða kandidat af íslenzkum ættum búsettum í Kanada eða Bandaríkjunum, styrk til náms í íslenzkum fræðum í heimspekideild Háskóla Íslands“ (að fylgt sé orðalagi tilkynningar ráðuneytisins, og tekur styrkurinn yfir tímabilið frá 1. október til 1. maí ár hvert. Hefir Þjóðræknisfélagið, samkvæmt beiðni ráðuneytisins, auglýst styrkinn vestan hafs og valið styrkþega. Hafa þegar, eigi allfáir stúdentar vestan um haf, flestir af íslenzkum ættum, hlotið styrk þennan og stundað nám í íslenzkum fræðum við Háskóla Íslands. Er hér um að ræða merkilegan þátt til viðhalds ætternis- og menningartengsla milli Íslendinga yfir hafið. Ráðuneytisstjóri Menntamálaráðuneytisins er Birgir Thorlacíus, er á sæti í ritnefnd **Lögbergs-Heimskringlu**, og hefir sent blaðinu kærkomið lesmál frá sjálfum sér og öðrum.

Kemur þá hlutdeild Þjóðræknisfélagsins í samstarfinu við Ísland á umræddu fimm ára tímabili, sem mjög er í anda fyrri starfsemi félagsins á því sviði. Með þátttöku sinni í móttökum hinna mörgu góðu gesta heiman um haf á þeim árum, er þegar hefir verið getið, og með fyrirgreiðslu í sambandi við ferðir þeirra, hefir félagið, bæði stjórnarnefndin og deildir þess, lagt sinn drjúga skref til framhaldandi viðhalds brúar ætternis og erfða yfir hafið. Getið hefir verið samvinnu stjórnarnefndarinnar við Menntamálaráðuneyti Íslands í sambandi við námsstyrk þann, er það veitir árlega vestur-íslenzku námsfólki til íslenzkunáms við Háskóla Íslands. Ennfremur gat forseti þess í ársskýrslu sinni 1967, að Gunnar Friðriksson, formaður hinnar íslenzku deildar Heimssýningarinnar í Montreal, hefði leitað til stjórnarnefndar félagsins um ábendingar frá Vestur-Íslendingum um skipulag deildarinnar.

Skal þá flett við blaði aftur til ársins 1964. og staðnæmzt við tuttugu ára afmæli hins íslenzka lýðveldis það ár, er minnzt var á vegum Þjóðræknisfélagsins beggja megin hafsins. Um þátttökuna af þess hálfu vestan hafs fer forseti eftirfarandi orðum í ársskýrslu sinni:

„Hinn næsti stór-viðburður meðal vor Íslendinga var tuttugu ára afmæli hins íslenzka lýðveldis. Var þess minnzt hér í Kanada að tilhlutun féhirðis félagsins, Grettis Jóhannson, ræðismanns, og með aðstoð varaforseta, próf. Haralds Bessasonar. Barst rödd forseta Íslands, herra Ásgeirs Ásgeirssonar til kanadísku þjóðarinnar í tilefni af deginum 17. júní í þjóðarútvarpinu C.B.C., og landstjóri Kanada, Gov. Gen. George P. Vanier, flutti einnig nokkur vinarorð til þjóðarinnar og til Íslendinga. Þar voru líka leikin nokkur íslenzk lög og mæltist þessi útvarpsliður mjög vel fyrir. Þeir sem á hann hlýddu fundu að hér var um að ræða þjóð, sem stóðst vel samanburð við aðrar menningarþjóðir.“

Forseti lætur þess einnig getið í skýrslu sinni, að dr. Richard Beck, fyrrv. forseti félagsins, er það sumar dvaldi á Íslandi ásamt Margréti konu sinni, hafi, samkvæmt sérstökum tilmælum stjórnarnefndarinnar, verið fulltrúi félagsins í þeirri Íslandsferð þeirra hjóna, og bætir við: „Hann flutti kveðjur félagsins og Vestur-Íslendinga á afar fjölmennri þjóðhátíð 17. júní í Reykjavík á tuttugu ára afmæli íslenzka lýðveldisins, sem útvarpað var samtímis."

Þjóðræknisfélagið hefir á síðustu árum, eins og um fjölmörg ár áður, leitazt við að leggja lið skógræktinni heima á ættjörðinni, og hefir sú viðleitni borið nokkurn árangur í árlegum fjárframlögum frá félaginu sjálfu, deildum þess og einstaklingum, sem unna því þjóðþrifamáli heimaþjóðarinnar. Hefir verið starfandi, og er enn, milliþinganefnd í því máli af félagsins hálfu, lengstum undir forystu frú Marju Björnsson, er beitt hefir sér sérstaklega fyrir framgangi málsins. (Um það vísast að öðru leyti til þingtíðinda félagsins frá umræddum árum).

Sterkasti þátturinn, sem á tímabili því, er hér um ræðir, hefir ofinn verið í taug ættar- og menningartengslanna yfir hafið af hálfu vor Vestur-Íslendinga og Þjóðræknisfélagsins eru þó hinar tíðu og fjölmennu hópferðir héðan í heimsókn til ættjarðarinnar. Mun þeirra hópferða allra, er Þjóðræknisfélagið og deildir þess stóðu að, getið í ársskýrslum forseta félagsins og skýrslum deilda þess, og því nægilegt að vísa til þeirra frásagna, um leið og þeim er þar höfðu forustuna, eða áttu þar með öðrum hætti sérstakan hlut að máli, er vottuð makleg þökk fyrir framtak sitt og þá ágætu þjóðrækni, sem þar lýsir sér í verki, og tekur það jafnframt til allra þátttakenda. En eins og forseti tók réttilega fram í ársskýrslu sinni á þjóðræknisþinginu 1966, þar sem hann lýsti ítarlega hópferðinni til Íslands vorið 1965, eiga þau Jakob F. Kristjánsson, skjalavörður félagsins og fararstjórinn, og frú Kristín Johnson, varafjármálaritari félagsins, sérstaka þökk skilið fyrir sitt mikla verk að undirbúningi fararinnar, ásamt með Gretti L. Jóhannson ræðismanni, féhirði félagsins.

Áður en rætt er um hópferðina síðastliðið sumar, þykir mér rétt að geta heimferðar Guttorms J. Guttormssonar skálds sumarið 1963, þar sem Þjóðræknisfélagið kom þar við sögu. Var hér um að ræða merka heimför til ættjarðarinnar, og lýsir forseti henni á þessa leið í skýrslu sinni fyrir það ár:

„Svo bar við á árinu, að flugfélagið Loftleiðir á Íslandi ákvað að gefa Þjóðræknisfélaginu tvo farmiða frá New York til Íslands. Var svo mælt fyrir, að miðum þessum yrði ráðstafað til styrktar vikublaðinu **Lögbergi -Heimskringlu.** Að frumkvæði Þjóðræknisfélagsins keyptu nokkrir vinir Guttorms J. Guttormssonar skálds annan miðann og buðu honum í Íslandsferð. Hinn miðann keypti dóttir Guttorms, Mrs. J. Sigurðsson til þess að geta fylgzt með föður sínum heim til ættjarðarinnar. Á Íslandi hlutu þau Guttormur og dóttir hans hinar beztu viðtökur og flutti Guttormur kveðjur frá Þjóðræknisfélaginu í ýmsum samkvæmum, sem honum voru haldin til heiðurs."

Réttilega er hér gefið í skyn, að Guttormur var að þessu sinni sem í fyrri heimferðinni mikill aufúsugestur, og þó að hann væri þá nærri hálfníræður að aldri, naut hann ágætlega þessarar ferðar eigi síður en hinnar fyrri. En mikill sómi var það Þjóðræknisfélaginu að eiga sem fulltrúa þennan mikilhæfa og einstæða s k á l d b ó n d a, kjarnakvist sprottinn úr rammíslenzkum menningarjarðvegi vestan hafs.

Skal þá sérstaklega vikið hér að hópferðinni, sem farin var til Íslands á vegum félagsins síðastliðið sumar (1968), þar sem hennar v e r ð u r af skiljanlegum ástæðum eigi getið í ársskýrslu forseta félagsins fyrri en á næsta þjóðræknisþingi, 50 ára afmælisþingi þess í febrúar 1969. En um þessa fjölmennu og að öllu leyti ágætu ferð vísast til ítarlegrar frásagnar frú Ingibjargar Jónsson ritstjóra **Lögbergs-Heimskringlu**, „Ógleymanleg ferð til Íslands," er birtist þar 29. ágúst 1968, og hefst á þessa leið:

„Ekki vitum við til að stærri hópferð Vestur-Íslendinga til Íslands hafi verið gerð héðan að vestan en sú sem farin var í sumar, — um 130 manns á vegum Þjóðræknisfélags Vestur-Íslendinga undir forustu Jakobs F. Kristjánssonar Mrs. Kristínar Johnson og séra Philips M. Pétursson.

Eins og kunnugt er á íslenzka þjóðin við allskonar erfiðleika að stríða á þessu ári, en heimamenn létu lítið sem ekkert á því bera við gestina og tóku á móti þeim með miklum höfðingskap."

Rekur frú Ingibjörg síðan ferðasögu þessa fjölmenna hóps eftir viðtölum við fararstjóra og aðra þátttakendur. Ber sú frásögn því vitni, hve víðtækt þetta ferðalag hefir verið um Ísland, framúrskarandi undirbúningi hlutaðeiganda heima á ættjörðinni, og frábærum viðtökum af hálfu opinberra aðila, ættingja og vina.

Meðal þátttakenda í ferðinni voru þau dr. Valdimar J. Eylands, fyrrv. forseti Þjóðræknisfélagsins, og frú Lilja kona hans, e n n f r e m u r þau hjónin Hjálmur og Hólmfríður Danielson, ritari félagsins, og voru þau boðin til Íslands af Þjóðræknisfélaginu þar, að tilstuðlun Snæfellingafélagsins og Húnvetningafélagsins, í viðurkenningar skyni fyrir víðtæk störf þeirra hjóna í þágu þjóðræknismála og annarra menningarmála vestan hafs.

Fyrr á sumrinu áttu þau Grettir L. Jóhannson aðalræðismaður og féhirðir félags vors, og frú Dorothy kona hans, nokkra vikna dvöl á Íslandi. Þeir Haraldur Bessason prófessor, fyrrv. varaforseti félags vors, og Walter J. Lindal dómari, fyrrv. vararitari, áttu einnig nokkra dvöl á Íslandi í júnímánuði í ferð sinni til Norðurlanda í boði Scandinavian Airlines félagsins, í tilefni þess, að það hóf flugferðir milli Danmerkur og Íslands snemma í þeim mánuði.

Ræðuhalda núverandi embættismanna Þjóðræknisfélagsins og fyrrv. forseta þess í heimferðinni síðastliðið sumar er getið í grein frú Ingibjargar um ferðina. Féhirðir vor, Grettir aðalræðismaður, ræddi einnig í Íslandsferð sinni mál félags vors og um samskiptin milli Íslendinga og heimaþjóðarinnar við í s l e n z k stjórnarvöld og aðra aðila. Má bæta

því við í þessu sambandi, að núverandi og fyrrverandi embættismenn félagsins hafa einnig, á fyrri ferðum sínum til Íslands á umræddu fimm ára tímabili, farið í erindum félagsins með ýmsum hætti og flutt kveðjur frá Vestur-Íslendingum og erindi um þjóðræknismál vor bæði í Ríkisútvarpinu íslenzka og á samkomum víða um land. En allt eykur þetta gagnkvæman skilning og styrkir ættar og menningarböndin milli Íslendinga austan hafs og vestan.

**Landkynningarstarfið**

Segja má, að útbreiðslu- og fræðslustarfsemi Þjóðræknisfélagsins, stjórnarnefndar þess og deilda, sé í rauninni landkynning, í þeim skilningi, að sú starfsemi miðar að varðveizlu íslenzkra menningarerfða vestan hafs, með fræðslu um land vort og þjóð, tungu vora, sögu og bókmenntir. En í þessum kafla yfirlitsins yfir sögu félagsins verður sérstaklega dregin athygli að þeirri hlið landkynningar þess, sem snýr að erlendum mönnum. Sú viðleitni hefir eðlilega farið fram á ensku, og þá einnig verið hafður í huga sá vaxandi hópur fólks af íslenzkum ættum vestan hafs, sem eigi getur lengur aflað sér fræðslu um íslenzkar menningarerfðir á tungu feðra sinna, en vilja eigi slitna úr tengslum við ættland sitt og arfinn þaðan. Í framannefndum ritgerðum um Þjóðræknisfélagið, er taka yfir 45 ára sögu þess, er þessari hliðinni á starfi þess gerð allítarlega skil, og nægir að vísa þangað. Eins og þar getur, studdi félagið á sínum tíma útgáfu rita, sem fjölluðu um sögu Íslands og bókmenntir á ensku. Í sama anda styrkti félagið fjárhagslega útgáfu bókar Wilhelms Kristjanson **The Icelandic People in Manitoba** (Smbr. skýrslu forseta 1964).

Í ritgerð minni um félagið 45 ára fór ég eftirfarandi orðum um þátt stjórnarnefndar þess í landkynningunni út á við fram að þeim tíma, og leyfi mér að endurtaka þau ummæli hér: „Þá er það hvorki orðinn lítill né ómerkilegur skerfur, sem embættismenn félagsins á ýmsum tímum og aðrir félagsmenn þess hafa lagt til umræddrar kynningar út á við með ræðum sínum og fyrirlestrum á ensku um íslenzk efni, sem skipta orðið þúsundum, og með fjölda ritgerða um sömu efni á ensku, er prentaðar hafa verið í víðlesnum blöðum og tímaritum, bæði í Kanada og Bandaríkjunum."

Í ljósi þess viðbótarstarfs, sem núverandi og fyrrverandi embættismenn félagsins hafa unnið að framhaldandi landkynningu á síðastliðnum fimm árum, eru ofangreind ummæli ennþá sannari en þau voru, þegar þau voru skráð, og hafði þá þegar ærið verk unnið verið þeim til staðfestingar. Engin tilraun verður hér, hins vegar, gerð til þess að rekja þá starfsemi nánar, enda yrði það langt mál, en nokkrar upplýsingar um það er að finna í skýrslum forseta félagsins.

Þá hefir félagið, beint og óbeint, átt nokkurn þátt að fyrirlestrahöldum kunnra erlendra fræðimanna um íslenzk efni í Winnipeg á umræddu tímabili, er sérstaklega hafa þó haldnir verið á fundum þjóðræknisdeildarinnar „Fróns" þar í borg, en fyrirlesararnir voru þeir prófessor Gwyn Jones (1964), prófessor Hans

Bekker-Nielsen (1966) og dr. Ole Widding (1967). En þeir opinberu fyrirlestrar, sem hér var um að ræða, hafa verið haldnir í sambandi við fyrirlestrahöld framannefndra fræðimanna á vegum íslenzkudeildarinnar við Manitobaháskóla. Stendur Þjóðræknisfélagið og félagsfólk þess í mikilli þakkarskuld við Harald Bessason prófessor fyrir að hafa hlutazt til um það, að íslenzkur almenningur og ýmsir aðrir velunnarar fræða vorra á þeim slóðum hafa fengið tækifæri til að hlýða á ofannefnda fræðimenn og kynnast þeim. Tekur það einnig til margra þeirra íslenzku fræðimanna, er að framan voru taldir. Skylt er jafnframt að geta þess, að „The Icelandic Canadian Club" hefir, ásamt þjóðræknisdeildinni „Fróni", staðið að sumum þessum fyrirlestrahöldum.

Þá áttu Þjóðræknisfélagið og deildir þess sinn hlut að því, í samvinnu fjölda annarra vestur- íslenzkra félaga, að gerður var hinn mikli og merki bronzskjöldur til minningar um landafundi norrænna manna vestan hafs. (Sjá nánar um hann í grein Haralds Bessasonar „Viðauki", í **Tímaritinu** fyrir 1966). Er skjöldur þessi afmælisgjöf frá íslenzka þjóðarbrotinu í landi hér til kanadisku þjóðarinnar í tilefni af aldarafmæli fylkjasambands Kanada. Var hann, eins og kunnugt er, afhentur þáverandi forsætisráðherra, Lester B. Pearson, formlega við sögulega og fjölmenna athöfn í Ottawa 14. apríl 1967. (Um sögu þessa máls og lýsingu á afhendingarathöfninni vísast til hinnar ítarlegu frásagnar frú Ingibjargar Jónsson „Merkur viðburður í sögu Vestur-Íslendinga", **Lögberg-Heimskringla** 27. apríl 1967).

Annar merkisatburður í landkynningarstarfseminni út á við gerðist á þjóðræknisþinginu í fyrra, 27. febrúar 1968, þegar fylkisstjórn Manitoba var, af hálfu félagsins, afhent höggmynd af dr. Vilhjálmi Stefánsson landkönnuði. Fór sú virðulega athöfn fram í þinghúsbyggingu Manitobafylkis, og veitti dr. George Johnson, menntamálaráðherra fylkisins, myndinni viðtöku fyrir hönd fylkisstjórnarinnar með ræðu. Síðan fór fram hliðstæð afhending í hinni nýju samkomuhöll og menningarmiðstöð Manitobafylkis í Winnipeg („Manitoba Centennial Centre"), þar sem myndinni verður fenginn ágætur staður og áberandi. Herra Maitland B. Steinkopf lögfræðingur, formaður „Manitoba Centennial Corporation", veitti myndinni móttöku og þakkaði hana með ræðu. Séra Philip M. Pétursson, forseti Þjóðræknisfélagsins og fylkisþingmaður, athenti myndina með ræðu á báðum stöðum. Þessir stjórnarnefndarmenn félagsins, auk forseta, áttu sæti í undirbúningsnefnd þeirri, er annaðist útvegun höggmyndarinnar og fjársöfnun til hennar: Grettir L. Jóhannson aðalræðismaður, formaður, prófessor Haraldur Bessason og Jakob F. Kristjánsson. En höggmyndin er gerð af kunnum amerískum myndhöggvara, Antonio Salemme. Nefndin hafði einnig látið undirbúa á ensku einkar snyrtilegan bækling, myndum prýddan, í sambandi við afhendingu höggmyndarinnar með ágætum upplýsingum um dr. Vilhjálm Stefánsson og myndhöggvarann. Eins og forseti tekur fram í ársskýrslu sinni

1967, á Grettir aðalræðismaður sérstaka þökk skilið fyrir forgöngu sína í þessu máli.

Þjóðræknisfélagið hefir einnig átt drjúgan hlut að því, að minningu dr. Vilhjálms Stefánsson verði haldið á lofti með minnisvarða í átthögum hans í Nýja Íslandi. Hefir Grettir aðalræðismaður einnig verið formaður nefndar þeirrar, sem fjallar um það mál af félagsins hálfu.

### Útgáfumálin

Útgáfumál Þjóðræknisfélagsins eru orðin harla margþætt og merkileg á 50 ára starfsferli þess. Hefir þegar verið vikið að útgáfu þeirra rita um íslenzk efni á ensku, sem félagið studdi með fjárframlögum. Rita þeirra á íslenzku, sem það hefir gefið út eða átt hlutdeild að, er og ítarlega getið í framannefndum afmælisgreinum um félagið, og verða þau því einungis talin upp hér: Barnablaðið **Baldursbrá** (1934-40), **Þjóðarréttarstaða Íslands** (upprunalega prentuð í **Tímariti** félagsins og síðar í bókarformi) og **Saga Íslendinga í Vesturheimi**, en samkvæmt sérstakri áskorun á ársþingi félagsins 1939 beitti það sér fyrir útgáfu hennar og studdi fjárhagslega útgáfu tveggja fyrstu bindanna.

Bæði áður en vestur-íslenzku vikublöðin **Lögberg og Heimskringla** voru sameinuð og síðan hefir Þjóðræknisfélagið, árum saman, stutt þau með fjárframlögum, enda hefir forystumönnum félagsins verið og er fyllilega ljóst hið mikla hlutverk slíkra blaða í allri þjóðræknis- og menningarlegri viðleitni vor Íslendinga hér í álfu. Eiga hér við orð þáverandi forseta og ritara félagsins í kveðjuávarpi frá félaginu til Stefáns Einarssonar, yfir 30 ár ritstjóra **Heimskringlu**, er hann lét af ritstjórnarstörfum og fluttist vestur á Kyrrahafsströnd haustið 1959:

„Ritstjórn íslenzkra blaða í Vesturheimi hefir jafnan verið bæði menningar- og þjóðræknisstarf. Vikublöð vor hafa allt í senn verið vettvangur vestur-íslenzkri bókmenntaiðju vorri, fréttaþráður og tengitaug milli Íslendinga vestan hafs og brú yfir hafið milli vor og heimaþjóðarinnar. Blöðin hafa jafnframt haldið vakandi áhuganum á íslenzku máli og menningarerfðum, aukið lesendum sínum þekkingu og skilning í þeim efnum.

Vér stöndum því í mikilli þakkarskuld við alla þá, sem átt hafa hlut að ritstjórn hinna vestur-íslenzku blaða vorra, fyrir mikilvægt menningar- og þjóðræknisstarf þeirra." (**Lögberg-Heimskringla** 8. okt. 1959).

En langmerkasti og mikilvægasti þátturinn í útgáfumálum félagsins er útgáfa ársrits þess, **Tímarits Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**, frá því að félagið hóf fyrst göngu sína og óslitið fram á þann dag. Ritið á því 50 ára afmæli samtímis félaginu sjálfu. Hefir stofnsaga þess verið rakin, og lýst stefnu þess og innihaldi í framangreindum afmælisgreinum um félagið. Sjálfsagt er þó að geta hér ritstjóra þess frá byrjun, en þeir eru: dr. Rögnvaldur Pétursson (1919-1940), Gísli Jónsson (1940-1958) og þeir hann og Haraldur Bessason prófessor síðan 1958. Á félagið þeim öllum mikla þökk að gjalda fyrir prýðileg ritstjórnarstörf þeirra. Þurfa menn eigi annað að renna sjónum yfir ár-

ganga ritsins hlið við hlið á bókahillu, til þess að gera sér það ljóst, hve umfangsmikið ritsafn það er orðið í heild sinni. Innihald þess skiptir þó miklu meira máli. Þar speglast saga, menningarlíf og bókmenntaleg viðleitni vor Íslendinga vestan hafs með mörgum hætti. Hefir **Tímaritið** einnig, að áliti hinna dómbærustu manna heima á ættjörðinni, unnið sér hefðarsess meðal íslenzkra tímarita samtíðarinnar. Óneitanlega hefir útgáfa ritsins verið félaginu þungur baggi fjárhagslega á síðari árum, og liggja til þess ýmsar orsakir. En mörgum hefir það verið kærkominn lestur, jafnframt því og það hefir verið tengitaug milli félagsmanna vestan hafs og austan, og áþreifanlegt tákn félagsins og starfsemi þess. Skrifað stendur: „Bókstafurinn blífur," hið ritaða orð lifir. **Tímaritið** mun um ókomna tíð halda á lofti nafni félagsins og þeirra, sem undir merki þess hafa leitazt við að varðveita og ávaxta í lengstu lög dýrmætustu ættar- og menningarerfðir sínar.

**Þjóðræknisþingin**

Þær eru orðnar fjölmargar og merkar samkomurnar, sem Þjóðræknisfélagið hefir staðið að, eitt sér eða í samvinnu með öðrum íslenzkum félögum, á liðnum 50 árum, og er margra þeirra getið sérstaklega í ársskýrslum forseta félagsins eða annars staðar í þingtíðindum þess. Allar hafa þessar samkomur átt sitt félagslega gildi, samhliða fræðslu- og skemmtiatriðum þeim, er þar hafa farið fram, og margar þeirra einnig sögulegt gildi, þar sem þær hafa ósjaldan verið tengdar merkistímamótum eða atburðum í sögu heimaþjóðarinnar eða í sögu Vestur-Íslendinga sjálfra.

Óhætt má þó segja, að þriggja daga ársþing Þjóðræknisfélagsins — þjóðræknisþingin — ásamt með samkomum í sambandi við þau, „Frónsmótunum" frá fyrstu tíð og samkomum „The Icelandic Canadian Club" um margra ára skeið, séu þýðingarmesti þátturinn í samkomuhöldum félagsins, og um leið í allri starfssögu þess, því að á fundum þingsins hafa verið rædd þau mál, sem félagið hefir haft með höndum, og ákvarðanir teknar um framtíðarstarfið. En fyrstu tvö kvöld þingsins sækja þingfulltrúar og gestir, og almenningur, samkomur þær, sem að ofan getur, en seinasta kvöldið samkomu, sem Þjóðræknisfélagið sjálft stendur að. Vandað er til skemmtiskrár á samkomum þessum bæði um ræðumenn og önnur atriði.

Er þjóðræknisþingunum vel og rétt lýst í eftirfarandi orðum dr. Jakobs Jónssonar, prests Hallgrímskirkju í Reykjavík, gamals samverkamanns í þjóðræknismálum vestur hér, í ítarlegri grein hans „25 ára Þjóðræknisþing Íslendinga vestan hafs" (**Alþýðublaðið** 24. febrúar 1944): „Þjóðræknisþingið er að því líkt alþingi hinu forna, að þar er ekki eingöngu rætt um alvarleg mál, heldur koma menn og þangað til að skemmta sér og kynnast hver öðrum."

Um hitt er óþarft að fjölyrða, hvað mikið og tímafrekt undirbúningsstarf liggur að baki þjóðræknisþingsins árlega, og hvílir það mest á stjórnarnefnd félagsins, að ógleymdri hlutdeild framangreindra félaga, er halda samkomur sínar í

sambandi við þingið. „Þjóðræknisþingin hafa,“ eins og ég komst að orði í ritgerð minni um aldarfjórðungsafmæli félagsins, „drjúgum aukið á litbrigðin í vestur-íslenzku félagslífi, og er sú starfsemi félagsins ein sér eigi lítils virði.“

Má það með ennþá meiri sanni segja um þjóðræknisþingin síðustu fimm árin. Þessi ár hefir dr. Valdimar J. Eylands, prestur Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg og fyrrv. forseti Þjóðræknisfélagsins, sýnt félaginu þá miklu vinsemd, að efna til sérstakrar íslenzkrar „þjóðræknismessu“ í kirkju sinni kvöldið fyrir þingið. Ásamt honum hafa tekið þátt í þeim guðsþjónustum, séra Philip M. Pétursson, forseti félagsins, og dr. Richard Beck, fyrrv. forseti þess, er flutt hefir aðalræðuna. Hafa guðsþjónustur þessar orðið vinsælar og verið vel sóttar, og með þeim ofinn nýr og vígður þáttur í samkomuhöldum þjóðræknisþingsins. Skuldar félagið dr. Valdimar mikla þökk fyrir þetta vinarbragð hans.

**Starfsliðið fyrr og nú**

Starfssaga Þjóðræknisfélagsins hefir hér að framan, eins og sagt var í málsbyrjun, verið rakin í megindráttum frá stofnun þess, og nánar dvalið við starfið síðustu fimm árin. Í yfirliti þessu er þó aðallega um að ræða almenna og ytri sögu félagsins, enda yrði það langt mál, ef nafngreina ætti hina fjölmörgu víðs vegar um Vesturálfu, sem af ást á varðveizlu íslenzkra erfða og skilningi á hlutverki félagsins, hafa lagt málum þess lið. En, eins og ég tók fram í grein minni um félagið 45 ára, má í víðtækustu merkingu orðsins segja, að starfslið Þjóðræknisfélagsins samanstandi af öllu félagsfólki þess, sem að einhverju leyti leggur virka rækt við mál þess. Sé þeim öllum heiður og þökk, er það hafa gert á liðinni tíð og gera enn!

Í þrengri merkingu er þó með starfsliði sérhvers félagsskapar einkum átt við embættismenn hans. Þeirra manna og kvenna í sögu Þjóðræknisfélagsins hefir þá einnig, af skiljanlegum ástæðum, verið sérstaklega getið í framangreindum yfirlitsgreinum um sögu þess. Embættismanntal félagsins fram að þeim tíma var einnig birt aftan við ritgerðir mínar um 25 ára og 45 ára afmæli félagsins og vísast þangað um nöfn þeirra og starfsár.

Sjálfsagt er, hins vegar, að telja hér upp nöfn núverandi embættismanna félagsins, en þeir eru:

Forseti:
Séra Philip M. Pétursson

Varaforseti:
S. Aleck Thorarinson, LL. B.

Ritari:
Frú Hólmfríður Danielson

Vararitari:
Páll Hallson

Féhirðir:
Grettir L. Jóhannson, aðalræðismaður

Varaféhirðir:
Jóhann T. Beck

Fjármálaritari:
Frú Kristín R. Johnson

Varafjármálaritari:
Baldur H. Sigurdson

Skjalavörður:
Jakob F. Kristjánsson

Sérstakur fulltrúi:
Snorri R. Gunnarsson.

Í þessu sambandi er skylt að geta þess, að á þjóðræknisþinginu í fyrra baðst Guðmann Levy undan endurkosningu, en hann hefir sem fjármálaritari átt sæti í stjórnarnefndinni í samfleytt 34 ár, skipað embætti sitt með mikilli prýði og verið félaginu hinn þarfasti maður með mörgum öðrum hætti.

**Niðurlagsorð**

Þó að hér hafi verið stiklað á stóru í 50 ára sögu Þjóðræknisfélagsins, nema hvað meginstarfið snertir síðustu fimm árin, leynir það sér ekki, að það er orðið mikið og margþætt menningarstarf, sem félagið hefir innt af hendi í þágu Íslendinga vestan hafs, og þá um leið, beint og óbeint, í þágu heimaþjóðarinnar, enda er það löngu viðurkennt af leiðtogum hennar og öðrum málsmetandi mönnum beggja megin hafsins, eins og fram hefir komið með ýmsum hætti, meðal annars í hlýjum kveðjum og viðurkenningarorðum, sem félaginu hafa borizt á ársþingum þess. Ennfremur er það óneitanlega glöggur vottur þess álits, sem félagið nýtur, að báðir fyrrv. forsetar Íslands, herra Sveinn Björnsson og herra Ásgeir Ásgeirsson, og landstjórar Kanada hver eftir annan hafa sýnt félaginu þann sóma að gerast Heiðursverndarar þess. Var það því þingheimi mikið fagnaðarefni, þegar forseti félagsins lýsti því yfir í byrjun lokasamkomu þingsins í fyrra, að hinn nýji landstjóri Kanada, The Right Honorable Roland Michener, C.C., hefði, eins og fyrirrennarar hans í embættinu, gerzt heiðursverndari félagsins.

En jafnframt því, að réttilega er viðurkennt, að starfssaga Þjóðræknisfélagsins sé harla margslungin og umfangsmikil að sama skapi, erum vér, sem höfum átt og eigum hlut að máli, oss fyllilega meðvitandi þess, að margt hefði mátt betur fara, og afrekin minni en vér hefðum kosið. Er það raunar gömul saga og ný, því að svo vill löngum verða, að djúp skilur drauma og framkvæmdir vor mannanna barna.

Þjóðræknisfélagið hefir frá fyrstu tíð átt mikilvægu hlutverki að gegna í félagsmálum og menningarlífi vor Íslendinga vestan hafs, og, að öllu athuguðu, aldrei fremur en einmitt nú. Öllum, sem unna íslenzkum erfðum, og þeir eru enn margir hér vestan hafs, sæmir því að skipa sér sem fastast um merki félagsins með samstilltum huga. Ennþá standa í óbreyttu gildi þær dýrmætu menningarerfðir, sem félagið hefir leitazt við að varðveita og ávaxta um 50 ára skeið. Eða eins og Einar P. Jónsson skáld segir í hinu fagra kvæði sínu „Ísland“:

Enn eru þínir allir góðir
andlegu sparisjóðir.

Minnug þess skyldum vér djörfum huga stíga inn um dyr hins nýja aldarhelmings í sögu félags vors.

Dr. SVEINN E. BJÖRNSSON:

# Tímaritið 50 ára

Ei sér aldahvörf
á andans leiðum
er lífskjarnans lindir
leita fram,
er morgunstund rís
af myrku djúpi
og gullna lokka greiðir
geislandi sól.

Úr hálfrar aldar húmi
ber helgirit,
hæst við himinrönd
horfinna tíða.
Það er landnámsbók
langferðamanna
gullnu letri
og skíru skráð.

Bauð ei vetrarríki
til værða þeim
veglausa lýð
í Vesturheimi,
þó í lífsstríði
langrar ævi
svifi að lokum
sól á bárum.

Er í Tímariti
trúrra manna
athafna getið
til árs og friðar,
um átök vakin
til endurfunda,
á einum og sama
ættargrunni.

Lék þá enn í laufi
ljóð sín Harpa,
um lífshelgidóma
og hugðarmál.

Fann hún grát í gróðri,
í grasi angan,
er haustlauf dáin hrundu
í hrjúfa mold.

Fann hún bros á blómi,
er bliknar um haust;
því kjarnans máttur mókti
í moldar skauti.
Sá hún harmský hverfa
sem hrím fyrir sól,
er í lundi léku
lífsins blóm.

Sigur kom að lokum
í sál hins þjáða;
frjóið forna vakti
af feðragrund
Nú varð nýja landið
sem nóttlaus veröld
í hug og bljúgu hjarta
hins hrjáða manns.

Lifir í ljóði og sögu
landnemans forna,
í **Tímariti**, tákn
um trúrra verk;
um vegsemd þeirra manna,
er veginn ruddu
og garðinn að lokum
gerðu frægan.

Þeim verða þakkarorð
þúsunda ei talin,
né lífstíðar starfi
laun fram borin.
Eitt er þó víst
um aldir mun
orðstír metast mest
fyrir minnstu laun.

Dr. HALLGRÍMUR HELGASON:

# Björgvin Guðmundsson tónskáld

Þegar Björgvin Guðmundsson lézt 1961, átti hann aðeins þrjá mánuði í sjötugt. Hann hafði þá lifað þrjá síðustu áratugina á Akureyri, lengst af sem söngkennari við Mentaskólann og Barnaskólann. Með honum féll í valinn einn hinn merkasti fultrúi og brautryðjandi íslenzkrar menningar.

Hugtakið íslenzk menning hefur löngum verið einskorðað við bókmenntir. Vissulega eru bókmenntir ein grein menningar. En hætt er við nokkurri einsýni, ef aðeins ritað bókmál á að fegra tilveru mannsins. Fagrar listir eru einnig snar þáttur menningar, hinar ýmsu greinar myndlistar , högglist, húsagerðarlist og tónlist. Og ef litið er á bókmenntir Íslendinga, þá eru þær furðulega einhæfar sem altæk heild. Þær eru sögulegar, epískar og lýriskar, en dramatíska formið lýtur í lághinni. Sjónleikurinn sem barátta milli andstæðra mannlegra tilfinninga er afskiptur.

Sé nú vikið að tónlistinni, þá kemur í ljós, að öldum saman var hún á Íslandi aðeins epískur söngur. Langar frásagnir um goðheima, ævintýralegar og sögulegar hetjur, voru kyrjaðar sem undirleikslaus einsöngur, ýmist sem tilefni til dansiðkunar eða sem áheyrileg tómstundaskemmtun. Hljóðfæri voru sjaldnast fyrir hendi og þá ekki heldur menn til að handleika þau. Hirðir þjóðhöfðingja, þar sem hljóðfæraleikarar voru velséðir vistmenn, fyrirfundust ekki, og stórar hverfakirkjur með margvíslegri tóniðkun þróuðust ekki í íslenzku dreifbýli.

Þannig lifði og hrærðist íslenzk þjóð eftir gullöld ritlistarinnar sem dönsk hjálenda í epískum sagnaheimi í sex aldir. Erlendir straumar megnuðu ekki að rjúfa þá einangrun. Með vaknandi framfara- og frelsisþrá 19. aldar komst fyrst hreyfing á forna stöðnun; einnig í söngefnum. Nú er fyrst reynt að samræma raddir í samstillta heild, raddir sem fram



**Björgvin Guðmundsson**

til þessa aðeins höfðu þrætt frumstætt en kröftugt samstigi keðjufimmunda. Upplifun keðjufimmunda var hvort tveggja í senn samhljómsopinberun og þjóðaríþrótt. Fimmtin var sem hátíðarsöngur raunlíf samræmdra fegurðar og festu í einföldustu formi afskekktrar náttúruþjóðar. Með henni bjó lífskraftur þjóðarinnar við hátíðleg tækifæri. Hún var í söng ímynd þess frumþróttar, sem var skilyrði þess, að lífið sigraði dauðann, að andinn væri efninu yfirsterkari.

Með 19. öldinni gengur í garð fjölröddun og leysir af tvíröddun hins forna víkinga- organums tvísöngsins. **Pétur Guðjohnsen** (f. 1812) og **Jónas Helgason** (f. 1839) innleiddu þessa nýjung. Nú þykir það galdraverk að koma saman fjórradda söng. Með **Sveinbirni Sveinbjörnssyni** (f. 1847; ekkja hans lifir enn háöldruð í Calgary í Kanada) eignast Ísland fyrsta gjörmenntaða tónlistarmann sinn, tónskáld og píanista. Þó átti Ísland ekki því láni að fagna að mega njóta starfskrafta hans. Hann lifði og dó erlendis. Óneitanlegt tap var það tónmenntalausri þjóð að sjá af slíkum útvöldum syni. Auk þessara tónfrömuða ruddu brautina **Helgi Helgason** (f. 1848), sem um hríð dvaldist í Kanada, **Bjarni Þorsteinsson** (f. 1861), sem fyrstur allra lagði grunn að þjóðlegum skóla, fræðilega séð, með þjóðlagasöfnun sinni, **Jón Laxdal** (f. 1865) með Íslendingasögu — dúettum sínum, **Björn Kristjánsson** (f. 1858) með fyrstu íslenzku tónfræðibók sinni, **Árni Thorsteinson** (f. 1870) með hreinni sönglýrík, **Friðrik Bjarnason** (f. 1870) með afbragðs barnasöngvum, **Sigfús Einarsson** (f. 1877) með fyrstu íslenzkri hljómfræði sinni og rómantískum einsöngvum og **Sigvaldi Kaldalóns** (f. 1881) með upprunalegri söngæð.

Á þessum grunni rís nú upp **Björgvin Guðmundsson** (1891-1961). Á hljóðfæralausum bæ fæðist hann á Rjúpnafelli í Vopnafirði og dvelur þar í bernsku. Úr spenntu tjörusnæri nær hann fyrst tónum í hljóðfæris stað. Svo tónvana er fyrsta æviskeið hans. Um frekari uppvöxt Björgvins má fræðast af fyrra bindi sjálfritaðrar ævisögu hans (**Minningar**, Akureyri 1950). Síðari hluti er enn óprentaður í handriti.

Sem unglingur flyzt Björgvin til Kanada. Hér dvelur hann um tveggja áratuga skeið. Og hér vakna tónlistarhæfileikar hans. Hann byrjar að semja lög. **Heyrið vella á heiðum hveri** verður til 1914, vafalaust eitt af beztu sönglögum sem Ísland á. Vinsældir þess sannprófaði greinarhöfundur sem söngkennari við Menntaskólann í Reykjavík 1941-1945. Var þá morgunsöngur í skólanum. Allir nemendur og kennarar söfnuðust saman á hátíðasal á hverjum morgni kl. 8. Og það brást aldrei, að lag Björgvins náði ávallt beztum undirtektum. Aldrei mun gamla skólahúsið hafa verið jafn gagnþrungið söng sem þá. Jafnvel gamlir bjálkar og bitar ómuðu með í smitandi fullstilltum klið.

Tíu árum síðar, 1924, ritar svo Björgvin helgikantötu sína **Til komi þitt ríki** (Adveniat regnum tuum) við enskan texta. Þess munu fá dæmi, að slíku verki hafi verið lokið á fimm vikum (24. nóv. til 27. des.). Sýnir þetta bezt öra hugkvæmni höfundar og vinnugleði. Verkið er í sjö köflum, þrír kaflar eru eingöngu fyrir kór, einn er tenór-sóló, síðan

bassa-sóló, kór og tenór-sóló, þá er dúett milli alts og bassa, og einn kafli er sópran-sóló, dúett (sópran og tenór), karlakór og loks blandaður kór. Uppfærsla þessa verks varð til þess að Vestur-Íslendingar söfnuðu liði og gerðu Björgvin fjárhagslega kleift að halda til Englands og nema þar tónsmíði við akademíuna í London. Hafa þessi skipulagða rausn og næmi skilningur á menntunarþörf skapandi tónlistarmanns aldrei verið þökkuð sem skyldi. Hversu ríkir sem meðfæddir hæfileikar eru, þarfnast þeir alltaf leiðbeiningar og handleiðslu innan sígilds uppeldiskerfis handverkslegra og listrænna lögmála.

Þetta fyrsta stórkórverk Björgvins ber vott um mikil tilþrif upprunalegrar tónvísi. Stíllinn er að sjálfsögðu hefðbundinn, með góðri tilbreytingu milli hljómbundins og raddfleygaðs tónbálks (**hómófón og pólýfón**). Víða er innlögð hermiröddun, og jafnvel breiðaxla frjáls fúga hljómar í 5. kafla. Með þessu verki haslar Björgvin sér völl sem mesta kórtónskáld, sem Ísland hefur eignazt. Fyrirheit er gefið og haldið með þrem öðrum óratórískum verkum, en þau eru **Strengleikar, Örlagagátan, Friður á jörðu** og svo kórverkið **Alþingishátíðarkantatan** 1930.

Oft hefur Björgvin verið kallaður ófrumlegur. Fyrst mun sú staðhæfing hafa komið fram hjá Halldóri Laxness, er hann talar um ‚manitóbanskan Handelisma'. Og þegar óratória Björgvins **Friður á jörðu** var flutt í Reykjavík í fyrsta sinn í lok síðustu heimstyrjaldar, var verkið uppnefnt, láns- og leigulög; í samræmi við fjárhagsaðstoð Marshalláætlunar við vanþróaðar þjóðir. Selskapspáfagaukar munu hafa fleytt á kreik þessu orðspori. En ef halda skyldi til streitu slíkum samlíkingum, þá mætti nefna önnur íslenzk tónskáld Mendelssohnianista, Griegbræður og Brahmsista. Og sé um áhrif að ræða, þá er sízt verra að líkjast Handel en t. d. Wagner eða Schönberg.

Það sem máli skiptir er boðskapur tónverks, þjóðfélagslegt gildi þess og söguleg staða. Boðskapur Björgvins er ávallt mannlegur. Hann skírskotar til mannsins bæði sem túlkanda og hlustanda. Tjáningarstíll er hispurslaus og einfaldur, hversdagslegur í góðum skilningi, en umfram allt dramatískur í stærri kórverkum. Hér hefur Björgvin flett nýju blaði í tónlistarsögu Íslendinga, skapað kórdramatík, sem áður var ekki til. Þjóðfélagslegt gildi kórverkanna er af þeim sökum mikið, að þau eru öll saman við alþýðu hæfi. Þau eru aðgengileg til flutnings fyrir leikmannakóra og auðskilin almenningi við fyrstu heyrn.

Söguleg staða Björgvins er merk vegna þess, að hann brýtur af sér smáborgaraleg bönd fyrirrennara sinna og megnar að fylla stór kórform, sem áður voru allskostar óþekkt á Íslandi, sannfærandi lífi.

Dæmin eru deginum ljósari. Kórarnir í **Friður á jörðu** troða að vísu kunnar brautir. En með þeim brennur innri eldur barnslegrar sálar, sem einkenndi allt líf Björgvins, hreinskilni hans og fullkomið falsleysi. Vandfundin er hreinni og ómengaðri listamannssál á Íslandi 20. aldar. „Elskunnar ómdýpt“ er fyrsti kórinn í **Friður á jörðu.** Þessi kærleikans tónn leikur um allt verkið.

Hvergi er þar að finna ósannan tón, hvergi uppgerð, hvergi óekta uppbelging innantómra fullyrðinga. Öll framsetning á sér stað í einlægni. Einna sterkust mun hún vera í **friðarkór** í upphafi IV. þáttar óratóríunnar **Friður á jörðu.** Enginn verður ósnortinn af því látlausa stefi kórsins, er hann lofsyngur læki í dölum og blóm á bölum. Hið sama má segja um karlakóra þessa verks. Þeir eru barmafullir af stemningu. Og einn fegursti kór í íslenzkum tónbókmenntum er eflaust **Sofið, sofið, gömlu vanans goð.**

Mikilleiki tjáningarinnar er aðalsmerki Björgvins Guðmundssonar. Lítillegir annmarkar á handverkslegum frágangi eru þar ekki þungir á metum, þótt einkum hafi það verið fundið honum til foráttu. Gildi tónverka er þjóðsögulega afstætt. Þjóð, sem aldrei hefur átt nein klassísk tónskáld, hlýtur að taka fegins hendi fyrstu tilraun til þess að lyfta Grettistaki listsögulegrar þróunar. Hún hlýtur að standa í þakkarskuld við þá, sem leiða hana fram til fjölbreytilegrar menningar. Einn þeirra er bóndasonurinn frá Rjúpnafelli.

Varla verður Björgvins minnzt án þess að nefnd séu nokkur lög hans, sem standa munu ætíð sem óbrotgjarn minnisvarði. Karlakórslagið **Á finnafjallsins auðn** er áhrifamikil mynd úr íslenzkri þjóðtrú, **Kvöldbæn,** til minningar um föður hans, er innblásið þakksemd og trúnaðartrausti. Þá er náttúran **Þeir-þei og ró-ró** hugnæm í sínum ofureinfalda afleiðslustíl, og lagið **Í rökkuró hún sefur** fellur með tónendurtekningu sinni mæta vel að angurværum texta Guðmundar Guðmundssonar.

Björgvin var gæddur ekki aðeins óvenjulegum tónlistargáfum. Hann var einnig mjög vel ritfær. Um það vitna greinar hans í blöðum og tímaritum og sjónleikur hans **Skrúðsbóndinn** með frumsömdum lögum, þjóðlífslíking fremur en dramatískt leikrit. Hann var opinskrár baráttumaður, sem ávallt kom til dyranna sem hann var klæddur. Hann unni sannleika og réttlæti öllu öðru fremur og eignaðist því marga mótstöðumenn eins og títt er um þá, sem fletta vilja ofan af misferli og rangsleitni. Kemur þessi hlið hans hvað bezt fram í barátturiti hans **Opið bréf til Tónlistardeildar Útvarpsins vegna óþjóðhollra starfshátta** (Akureyri 1951). Átti hann jafnan undir högg að sækja, er Reykjavíkurvaldið í tónlistarefnum var annars vegar. Og orkar það ekki tvímælis, að verk hans voru löngum sniðgengin í höfuðborginni, og sum þeirra hafa aldrei verið flutt í Reykjavík allt til þessa dags.

Hér er drepið á eiginleika íslenzks tómlætis, sem mörgum listamanninum hefur reynzt þungbært. Verst er þetta fyrir tónskáld, því að tónsmíðar, sem aldrei heyrast, eru ekki til sem raunveruleiki, aðeins sem rituð tákn, sem ávísun á hljómandi veruleika. Ísland á því mikla vangoldna skuld við Björgvin Guðmundsson.

Íslands framtíð er þá áreiðanlega bezt borgið, að það standi vörð um sína ágætustu syni. Siðbyrging eða „sívílisasjón“ er ekki menning. Hún er fyrst og fremst möguleiki til aukinna efnislegra lífsþæginda. Menning er hinsvegar útstreymi mannlegs anda til þess að auka fegurðar- og sannleiksgildi tilverunnar. Bók-

menning Íslands hefur jafnan verið lofuð hástöfum. Í þeirri einhliða ofdýrkun hefur mönnum láðst að reyna að meta til sanns gildis aðrar greinar menningar. Þess vegna hefur íslenzk tónmenning allt til þessa dags átt erfitt uppdráttar. Þröngsýn persónudýrkun hefur skyggt á yfirsýn yfir málefnið sjálft. Þegar nú framlag Björgvins Guðmundssonar til íslenzkrar tónmenningar er skoðað í heild, þá leikur enginn vafi á því, að hlutur hans er stór. Það mun koma í ljós, að hann sem mesti kórhöfundur Íslands, lagði grundvöllinn að alþýðlegum kórsöng sem almenningseign. Það var hans stórmerka hlutverk í menningarsögu Íslands.

---

**RICHARD BECK:**

# Gömlu miðin

(Höf. er alinn upp í Litlu-Breiðuvík í Reyðarfirði, og sótti á yngri árum sjó á þau mið austur þar, sem um getur í kvæðinu.)

Brýtur enn á Brökum,
brotnar hrönn við Skrúð,
þungt er sog við Seley,
svarrar brim á flúð.

Söm er eins og áður
úfin Gerpisröst,
átök hörð þar eiga
alda og straumaköst.

En oft var á þeim slóðum
aflagjöfull sær,
því eru mér í minni
miðin gömlu kær.

Heilla fjöll og fjörður,
fegurð tignarrík,
haldið skal af hafi
heim í Breiðuvík.

HERMANN PÁLSSON:

# Íslenzkar fornsögur og Isidor frá Seville

1.

Í **Eiríks sögu rauða** kennir ýmissa grasa, enda hefur höfundur hennar verið menntaður maður á þeirrar tíðar vísu, og lætur hann sig ekki muna um að skreyta frásagnir sínar af landinu mikla í vestri með útlendum lærdómi. Þannig getur hann til að mynda um einfæting nokkurn eins og þar væri um algengt fyrirbæri að ræða: „Það var einn morgun, er þeir Karlsefni sáu fyrir ofan rjóðrið flekk nokkurn, sem glitraði við þeim, og æptu þeir á það. Það hrærðist, og var það einfætingur og skauzt ofan á þann árbakkann, sem þeir lágu við. Þorvaldur Eiríksson rauða sat við stýri, og skaut einfætingur ör í smáþarma honum. Þorvaldur dró út örina og mælti: „Feitt er oss um ístruna. Gott land höfum vér fengið kostum, en þó megum vér varla njóta." — Þorvaldur dó af sári þessu litlu síðar. Þá hleypur einfætingur á braut og suður aftur. Þeir Karlsefni fóru eftir honum og sá hann stundum. Það sáu þeir síðast til hans, að hann hljóp á vog nokkurn. . . . Þeir fóru þá í brott og norður aftur og þóttust sjá **Einfætingaland.**" Þótt fræðimenn hafi þótzt geta fundið Einfætingaland og valið því stað á landabréfi Vesturheims, þá er óþarfi að gera sér slíkar grillur um staðinn. Hér eins og víðar í íslenzkum fornsögum er verið að beita lærðum hugmyndum í því skyni að auka á áhrifin; dauði Þorvalds Eiríkssonar er enn átakanlegri og dularfyllri en ella hefði orðið af þeirri einföldu ástæðu, að hann ber ekki náttúrulega að höndum. Hið óskýranlega og óþekkta vekur ávallt meiri ugg en hitt, sem menn kannast við.

Ekki þarf að fara í miklar grafgötur um fyrirmyndina að lýsingunni á einfætingum; hún er komin (að vísu með einum millilið að minnsta kosti) úr riti, sem kallað er venjulega Etýmólógíur, og er eftir spænskan biskup, sem hét Isidor og átti heima í borginni Seville; Isidor andaðist árið 636. Rit hans hafði geysimikil áhrif um margra alda bil, meðal annars á Íslandi. Nú vill svo vel til, að í Hauksbók, sem hefur inni að halda annað aðalhandritið af **Eiríks sögu rauða**, eru fræðikaflar um fjarlæg lönd og „margháttaðar þjóðir", og þar segir meðal annars á þessa lund: „**Einfætingar** hafa svo mikinn fót við jörð, að þeir skyggja sér í svefni við sólu; þeir eru svo skjótir sem dýr og hlaupa við stöng." Ekki mun höfundur Eiríks sögu hafa þurft á öllu meiri fróðleik að halda til að koma einfætingum að í Vesturálfu.

En ekki er þetta eina atriðið í Eiríks sögu, sem mun vera kynjað frá biskupnum spænska. Annars staðar í frásögninni er getið um Hvítramannaland, og hefur einnig

verið leitazt við að troða því niður á landabréf Vesturálfu. Karlsefni og menn hans hafa tekið Skrælingjadrengi höndum og kennt þeim mál. Síðan fara piltar að fræða Íslendingana um staðhætti þar: „Þeir sögðu þar liggja land öðrum megin, gagnvart sínu landi, er þeir menn byggðu, er voru í hvítum klæðum og báru stangir fyrir sér, og voru festar við flíkur og æptu hátt, og ætla menn, að það hafi verið **Hvítramannaland** eða Írland hið mikla.“ Bæði þessi nöfn koma einnig fyrir í Landnámu, þar sem segir um Ara Másson, að „hann varð sæhafi til **Hvítramannalands;** það kalla sumir Írland hið mikla; það liggur vestur í haf nær Vínlandi hinu góða. Það er kallað sex dægra sigling vestur frá Írlandi.“ Einsætt er, að frásagnir þessar eru náskyldar, og verður ekki leitazt við að rekja þann skyldleika hér, því að á hann hefur verið drepið á öðrum vettfangi. En einn þátturinn í þessum fróðleik um Hvítramannaland er runninn upphaflega frá Isidor biskupi. Í þættinum af margháttuðum þjóðum er svofelld frásögn í Hauksbók: „Albani, þeir eru hvítir sem snjór bæði í hárslit og á hörund, þegar er þeir eru alnir; þeir hafa augu gul í höfði og sjá betur um nætur en um daga.“ Albani draga nafn sitt af latneska orðinu „albus“ sem merkir hvítur og mætti því land þeirra vel h e i t a Hvítramannaland. Nú hagar svo til, að Skotland hét **Alba** að fornu (og heitir raunar svo enn á keltnesku máli Hálendinga og Íra), og var því næsta eðlilegt, að lærdómurinn um þessa hvítu þjóð og heitið á Skotlandi gæfi einhverjum íslenzkum sagnamanni þá hugmynd, að koma þessum orðaleik að. Annars staðar í Hauksbók er þessi fróðleikur um Albaníaland, sem vel mætti kallast Hvítramannaland: „Þar í hjá er Albaníaland; þar eru menn bornir svo hvítir sem snjór, en þeir sortna svo sem þeir eldast. Þar er kaldast þess sem byggt er í heiminum. Þar eru hundar svo stórir og sterkir, að þeir bana yxnum og óargadýrum. Þar liggur **Írchaníaland. . . .**“ Vel má v e r a, að lega Írchaníalands hjá Albaníalandi (í Asíu) hafa átt einhvern þátt í samstöðunni Hvítarmannaland: Írland hið mikla.

2.

Einhver átakanlegasta frásögnin sem til er af íslenzkum hrakningum vestur um haf að fornu er í **Flóamanna sögu.** Þorgils errabeinsstjúpur er mikill vinur Eiríks hins rauða, sem býður honum að flytjast vestur til Grænlands. Kona Þorgils er andvíg þessari för, en þó verður úr, að þau g e r a s t útflytjendur og sigla vestur í átt til Grænlands. En þau lenda í miklum hrakningum og brjóta skip sitt undir jöklum á austurströnd Grænlands, svo þau urðu að búast um í skála á landi. Um veturnætur elur kona Þorgils barn, og bjargaðist hún við þá fæðu, er til var, segir sagan. Um veturinn létust margir fylgdarmenn hans, og eru þau þar annan vetur. Eitt sinn fer Þorgils á jökla, og þegar hann kemur til baka, finnur hann konu sína myrta, og báturinn og allur matur horfinn, en ungbarnið er þó enn á lífi og saug móður sína dauða. „Um nóttina vill Þorgils vaka yfir sveininum, og kvaðst ekki sjá, að hann mætti álengdar lifa,“ og þykir mér það allmikið, ef ég má eigi hon-

um hjálpa; skal það nú fyrst taka bragða, að skera af mér geirvörtuna.“ Og svo var gert; fór fyrst úr blóð, síðan blanda, og lét eigi fyrr af en úr fór mjólk; og þar fæddist sveinninn upp við það.“ — Síðan lýsir sagan því, hvernig þeim feðgum tókst að komast til Eiríks rauða, en þeim féll svo illa þar, að þeir sneru aftur heim til Íslands.

Frásögnin af úrræði Þorgils austan jökla á Grænlandi, er kona hans var myrt og barn d a u ð v o n a af hungri, má bera saman við kafla þann af marghátttuðum þjóðum, sem getið var áður og varðveittur er í Hauksbók: „Ermófródite heita menn, er geirvörtu hafa hina hægri sem karlar, en hina vinstri sem konur; þeir mega vera bæði feður og mæður barna sinna.“ Í **Flóamanna sögu** er oftar en einu sinni vikið að móðurhlutverki Þorgils. Þannig er einn af heimamönnum Eiríks rauða látinn brigzla Þorgilsi um þá tvíkynjun, sem Isidor eignar „Ermófródíte“ í bók sinni, því að Grænlendingurinn segir um Þorgils: „. . . Óvíst er mér hvort hann er heldur karlmaður eða kona.“ Og síðar í sögunni er Þorgils sjálfur látinn svo að orði komast, að hann myndi „vorkenna konunum, þótt þær y n n u brjóstbörnunum meira en öðrum mönnum.“ Höfundi Flóamanna sögu var það fullljóst, að með lýsingunni á móðurhlutverki Þorgils hafði hann gerzt sekur um brot á lögmálum náttúrunnar, en afsökun hans hefur vafalaust verið sú, að hann hafði hlítt fyrirmynd frá einhverjum frægasta lærdómsmanni miðalda, sjálfum Isidor frá Seville á Spáni.

Engan þarf í sjálfu sér að undra, þótt höfundar íslenzkra fornsagna, sem vildu semja mergjaðar frásagnir af reynslu íslenzkra ævintýramanna á Grænlandi og Vínlandi yrðu að leita til Isidors frá Seville, þegar mikið reyndi á. Og enn síður má það teljast undarlegt, þótt sagnahöfundar sæktu sér fróðleik, þegar þeir vildu lýsa reynslu og hrakningum manna í austurvegi.

Um það leyti sem börn Þorfinns karlefnis Vínlandsfara eru vaxin úr grasi norður í Skagafirði, ber svo við austur í Garðaríki eða Rússlandi eins og menn kalla löndin nú á tímum, að sænskur trúboði og ferðalangur deyr þar. Í svokölluðum Þingeyraannál er þess getið við árið 1041, að þá hafi látizt Yngvar nokkur víðförli. Nú hagar svo til, að enn eru varðveittar allmargar rúnaristur í Svíþjóð, sem g e r ð a r voru til minningar um menn sem fallið höfðu „austur með Y n g v a r i“ eða að minnsta kosti tekið þátt í austurför hans, þótt dauða þeirra bæri síðar að höndum. Síðar tekur svo einhver Íslendingur sér fyrir hendur að rita **Yngvars sögu víðförla**, en sú saga lýsir ekki einungis austurför Yngvars sjálfs, heldur einnig könnunarferð Sveins sonar hans. Í leiðangrum þessum átti einn Íslendingur, Garða-Ketill, að hafa tekið þátt.

Í Yngvars sögu er talað um dreka nokkurn, sem Jaculus heitir og er hann þeginn beint úr riti Isidores; í báðum ritum er hann flugdreki (eða **serpens volens**, eins og Isidore kallar hann), og í báðum ritum er talað um fjöll af gulli í austri, sem drekar gæta. Isidore telur þau vera í Indlandi, en höfundur Yngvars sögu hefur svo óljósar hugmyndir um heiminn og landafræðina, þegar

kemur austur í Rússland, að allt verður í þoku og Indland kemur aldrei í ljós.

Annað atriði, sem höfundur Yngvars sögu hefur þegið frá Isidore, eru ýmis nöfn, svo sem borgin Heiliopolis og skaginn Sigeum; einkum á skaginn og konungurinn Sigeus(!) tilvist sína Isidore að þakka. Mætti auka hér við mörgum orðum, en verður þó látið bíða að sinni. Vænti ég að gera nánar grein fyrir þessu máli, þegar hin enska þýðing mín á **Yngvars sögu** kemur út, en þess verður væntanlega ekki of lengi að bíða.

Áður fyrr var það mjög í tízku, að menn ræddu um íslenzkar fornsögur, eins og þær stæðu í engu sambandi við umheiminn. En um undanfarin ár hefur æ meir og meira komið í ljós, að hugmyndir þeirra eru að verulegu leyti sóttar til lærdómsheims Evrópu, en íslenzkir sagnahöfundar báru þroska og skyn til þess, að láta lærdóminn þjóna tilgangi sínum, svo að frásögnin sjálf var alltaf aðalatriðið.

---

**Orðsending frá ritstjórum Tímaritsins**

Að líkindum verður þetta hefti Tímaritsins, sem er hið fimmtugasta í röðinni, einnig hið síðasta. Hér er þó ekki um dánaryfirlýsingu að ræða, heldur eru íslenzk útgáfumál í Vesturheimi nú í athugun og horfur á, að sú athugun kunni að leiða til allmikilla breytinga, þannig að starfskraftar þriggja rita, sem hér eru gefin út bæði á íslenzku og á ensku, verði smám saman færðir í eina heild. Vafalaust er það okkur ofrausn að gera út þrjár mismunandi útgáfur, þ. e. Lögberg-Heimskringlu, The Icelandic Magazine og Tímaritið, enda hafa nú heyrzt raddir um skeið þess efnis, að happadrýgra myndi að hafa eina útgáfu og byggja henni traustari grundvöll en þann, sem við nú stöndum á. Ekki ber að skilja þessi orð svo, að sameining hafi þegar orðið, en hún er nú það markmið, sem við stefnum að. Ritstj.

MAGNÚS ELÍASSON:

# Þegar íslenzk tunga komst í öndvegi í Saskatchewan

Það mun hafa verið haustið 1907, að nýr kennari tók til starfa á Geysis skólanum í grennd við Árborg í Nýja Íslandi. Kennari þessi var rétt innan við þrítugt og þá nýkominn austan frá Ontariofylki. Fullu nafni hét hann James Thomas Milton Anderson, en var vanalega kallaður J. T. M. Anderson. Ekki mun Ný-Íslendinga hafa órað fyrir því, að nýi kennarinn þeirra ætti það fyrir höndum að auka svo áhrif sín í menntamálum næstu fjóra áratugina eftir komuna til Geysis, að honum yrði skipað á allra fremsta bekk í þeim efnum. Ekki gátu þeir heldur séð það fyrir, að hinn ungi kennari ætit það fyrir höndum að verða eini forsætisráðherra Íhaldsflokksins í sögu Saskatchewanfylkis frá upphafi vega til dagsins í dag, þegar þetta er skrifað. Allra sízt gátu þeir rennt grun í, að liðsmaður þeirra úr austurátt myndi vinna það afrek að verða eini íslenzkumælandi forsætisráðherrann í kanadísku fylkjunum.

J. T. M. Anderson var fæddur í Fairbank í Ontario 23. júlí 1878 af írsku foreldri. Hann gekk á barnaskóla í Fairbank byggðinni og síðar á miðskóla í Toronto. Þar hóf hann víst líka sína löngu og örðugu menntabraut á háskólasviðinu. Að því er virðist varð hann oft að hverfa frá námi sakir fjárskorts, og tók hann þá að sér kennslu í ýmsum skólum. Hann hafði þegar gegnt kennarastöðu í Ontarío, áður en hann tók til við kennsluna í Nýja Íslandi.

Á fyrsta ártug þessarar aldar voru vesturhéruð Kanada óðum að byggjast og Saskatchewan nýorðið fylki í kanadíska fylkjasambandinu, en til Saskatshewan fluttist víst Anderson árið 1908 og tók þar að sér barnakennslu í grennd við járnbrautarþorpið Melville og varð svo skólastjóri í Grenfell bænum. Þar kynntist hann Edith Redgwick, og voru þau gefin saman í hjónaband árið 1911. Var sagt, að frú Edith hefði reynzt manni sínum hinn traustasti förunautur jafnt í blíðu sem stríðu á lífsleiðinni. Eftir komu sína



J. T. M. Anderson

til Saskatshewan og kennslustörf þar um skeið hélt Anderson áfram á námsbrautinni og útskrifaðist frá Wesley College í Winnipeg árið 1911 og hlaut þá silfurmedalíu fyrir námsafrek í klassískum fræðum. Árið 1913 útskrifaðist hann í lögfræði frá Manitóbaháskóla og hlaut meistaragráðu frá sama skóla næsta ár. Honum var veitt gráðan 'Bachelor of Pedagogy' við Toronto háskólann árið 1917, og þar fékk hann sína doktorsgráðu árið 1918. Var þá lokið langri námsbaráttu, sem hafði víst tekið um fimmtán ár. Á árunum 1911 starfaði Anderson eitthvað sem námsstjóri (inspector of schools) í Yorkton umdæminu í Sasaktchewan.

Nú víkur sögunni aftur til baka til vetrarins 1907-1908 í Nýja Íslandi. J. T. M. Anderson var þá, eins og áður segir, kennari á gamla Geysisskólanum og í fæði á rausnarheimilinu Geysi hjá Páli heitnum, sem þar bjó lengi. Engum, sem kynntist Anderson kennara, fékk dulizt, að hann hafði til að bera miklar og fjölhæfar gáfur og að áhugi hans fyrir menntun og skólamálum var með afbrigðum mikill. Hann skrifaði og kenndi svo fagra rithönd, að sextíu árum seinna má enn sjá merki kennslunnar meðal eldra fólks í Nýja Íslandi. Kennslustörfin unnust honum létt, og auðvelt átti hann með að halda uppi góðri reglu í skólanum, því að börnunum féll svo vel við kennsluaðferðir hans.

Margir hafa látið yfir því við mig, að Anderson hafi verið einstaklega snjall að teikna mannamyndir. Hann þurfti aðeins að leiða fyrirmyndina augum, áður en hann gerði teikninguna. Stundum voru þetta bara fáein strik, en aldrei lék neinn vafi á því, hvaða manneskju snillingurinn með blýantinn hafði í huga. Kunnugur hefir sagt mér, að sönggáfan væri eini hæfileikinn, sem fælzt hafi Anderson. Honum var víst alveg meinað að láta nokkuð að sér kveða á því sviði.

Á leiksviðinu var Anderson ekki einungis góður leikari, heldur lét hann sig ekki muna um að mála leiktjöldin, ef svo bar undir. Þessu tvöfalda hlutverki gegndi hann, þegar leikflokkurinn að Geysi var að æfa og sýna leikinn 'Hertoginn af Feneyjum'. Einnig setti Anderson saman leikþætti í samtalsformi fyrir tvo (dialogue), og lék Jón Pálsson á Geysi, sem var þá um tvítugt, oft með honum. Dásamlegt þótti fólki að hlýða á upplestur Andersons á enskum ljóðum, en þau lék hann framúrskarandi vel frá upphafi til enda, og ekki hvað minnst þótti fólki koma til búktalaragáfu hans. Hann gat látið brúður spjalla saman á leiksviði án þess að nokkur svipbrigði væru greinanleg á andliti búktalarans, og ómögulegt var að sjá þess nokkur merki, að leikarinn væri sjálfur að tala. Ekki man ég, hver sagði mér eftirfarandi sögu, en sögumaður var viðstaddur atburðinn og heyrði og sá, hvað fram fór.

Svo bar til einn sunnudag, að Anderson var staddur á gistiheimilinu (stopping plássinu) á Heytanganum fyrir norðan Íslendingafljót. Bar þá þar að garði fiskflutningsmann, sem var heldur en ekki búinn að fá sér í staupinu. Reyndist hann of ölvaður til að geta komið sleðahrossum sínum inn í hesthúsið. Hjálpsamir menn, sem sáu hvernig komið var, drifu náttúrlega hrossin frá sleðanum og inn í hesthús, en sá ölvaði

slangraði inn í hús með hávaða miklum. Þar í húsinu var hundur stór og svartur. Nú kom svo, að Anderson, sem var nærstaddur og fylgdist með komumanni, þótti nóg um hávaðann. Tók hann þá það til bragðs að láta hundinn ávarpa hinn drukkna heldur hastarlega. Varð manninum þá svo felmt við, að áhrif vínsins runnu af honum á svipstundu, og gat hann nú farið sinna ferða út í hesthús að gæta að hrossum sínum.

Þá tvo ársparta sem Anderson var á Geysi stofnaði hann þar knattleikalið (base ball club), sem var við lýði í ein þrjátíu ár. Margar sagnir hefi ég heyrt um það, hvað mikið eða hvað lítið Anderson lærði í íslenzku þann stutta tíma, sem hann var í norðurhluta Nýja Íslands. Það eitt er víst, að síðar á ævinni, þegar hann var á hátindi frægðar sinnar í Saskatchewan, talaði Anderson íslenzku. Þá sögn hefi ég eftir mörgum Íslendingum frá Saskatchewan. Ennfremur er íslenzkukunnátta Andersons staðfest í grein, sem S. J. Latta menntamálaráðherra Saskatchewan skrifaði í dagblaðið Saskatoon Star 12. október árið 1922.

Árið 1918 tók dr. Anderson að sér forustuna um skipulagningu á fræðslu fyrir þá innflytjendur í Saskatchewan, sem ekki kunnu ensku. Vann hann það starf á vegum menntamálaráðuneytis fylkisins. Sagt er, að áhugi hans á þessu starfi hafi verið svo mikill, að hann hafi lagt það á sig starfsins vegna að læra sex tungumál. Er því ekki að furða, þó að honum tækist að læra íslenzkuna. Á þeim fjórum árum, sem hann gegndi þessu fræðslustarfi, skrifaði hann bókina "The Education for the new Canadian", og er sú bók ennþá notuð við kennslu í Saskatchewan.

Árið 1922 varð dr. Anderson námsstjóri (school inspector), og gegndi hann því embætti til 1924, en þá tók hann að sér formennsku Íhaldsflokksins í Saskatchewan. Marga hefi ég talað við, sem kynntust Anderson, þegar hann sem námsstjóri heimsótti skóla út um byggðirnar. Hafa þeir allir rómað gáfur hans og áhuga á menntun og lærdómi yfirleitt.

Árið 1925 var dr. Anderson kjörinn á fylkisþing Saskatchewan fyrir eitt kjördæmið í Saskatoon. Fjórum árum síðar, þ. e. eftir fylkiskosningarnar 1929, myndaði dr. Anderson einu íhaldsstjórnina, sem setið hefir að völdum í Saskatchewan. Þó að flokkur Andersons væri heldur í minni hluta í þinginu, hlaut hann stuðning framsóknarmanna og óháðra þingmanna. Í ráðuneyti sínu gegndi Anderson stöðu forsætisráðherra og menntamálaráðherra. Þau fimm ár, sem stjórn hans var við völd, vann Anderson dyggilega að umbótum á skólamálum fylkisins, enda þótt þá væru örðugleikar kreppuáranna í algleymingi. Undirbjó hann stofnun bókasafna víðs vegar um fylkið, en fjárskortur kreppuáranna gerði framkvæmdir ómögulegar.

Eftir að stjórn Andersons hafði verið bylt frá völdum árið 1934 og hann sjálfur tapað þingsæti sínu, setti hann á stofn verzlun fyrir skólabækur og skólaáhöld, því að alltaf þráði hann að hafa eitthvert samband við menntastofnanir. Árið 1944 tók hann svo aftur til við kennslu, en í það sinn sem umsjón-

armaður fyrir skóla heyrnalausra í Saskatoon. Þegar hér var komið sögu, var Douglas stjórnin tekin við völdum í Saskatchewan. Einn nýju ráðherranna, John Sturdy, var náfrændi Andersons og þekkti vel kennarahæfileika frænda síns. Sannfærði ráðherrann nú frænda sinn um, að enda þótt hann væri kominn um sjötugt og orðinn heilsutæpur, þá væri það engu að síður hans hlutverk að koma kennslu heyrnalausra í betra horf en áður hefði þekkzt. Dr. Anderson átti aðeins tvö ár ólifað, þegar hann tók við þessu starfi, því að dauða hans bar að 29. des. 1946. Engu að síður tókst honum á þessum síðustu tveim árum ævinnar að koma fram mörgum góðum og gagnlegum breytingum innan þess starfssviðs, sem honum hafði verið fengið.

Því miður eru heimildir þær, sem varðveittar eru um dr. J. T. M. Anderson á skjalasöfnum í Regina og Saskatoon, alltof fáskrúðugar. Þykir mörgum, sem þekktu hann, mikill skaði, hve lítið er að finna á prenti um hinar sérstöku hugmyndir hans og framsýni á sviði lærdóms- og menntamála. Framanskráð orð eru og stutt og ófullkomið æviágrip um þennan írskættaða og mikilhæfa Ontaríóbúa, sem um skeið kom dálítið við sögu Nýja Íslands, og varð síðar eini forsætisráðherra í Kanada, sem hefir orðið þess megnugur að mæla á íslenzka tungu.

---

Þetta hefti Tímaritsins hefir að geyma margar ritsmíðar eftir höfunda, sem skrifa nú fyrir ritið í fyrsta sinn. Hæfir því, að grein sé fyrir þeim gerð. Dr. Hallgrímur Helgason er prófessor í tónvísindum við Regina Háskólann í Saskatchewan. Hermann Pálsson var gistiprófessor við miðaldadeild Toronto Háskólans síðast liðið ár. Hann hefir annars lengi kennt og kennir nú við Edinborgarháskólann í Skotlandi. Dr. Thorvaldur Johnson er meðal kunnustu vísindamanna af íslenzkri ætt í Kanada. Hann er sérfræðingur í plöntusjúkdómum, en les jafnframt bókmenntir og hlýðir á sígild tónverk í tómstundum. Magnús Elíasson er einn af framámönnum Ný-demókrata í Manitoba og í borgarstjórn Winnipeg borgar. Jón Howardson er Jökuldælingur að uppeldi og uppruna, en átti lengi heima við Manitóbavatn. Hann hefir oft skrifað í íslenzk blöð undr dulnefninu Gamli Jón. Magnús Einarsson Mullarký er magister í þjóðsagnafræðum og starfar við þjóðfræðistofnun Indianaháskólans í Bandaríkjunum, Ritstj.

JÓN HOWARDSON:

# Svipmyndir frá fyrri tíð

Er mér sígur svefn á brá,
svo mig fer að dreyma,
einatt staddur er ég þá
einhvers staðar heima.

Ofangreint erindi mun eiga við margt aldrað fólk, þegar það er setzt í helgan stein, eins og kallað er, eða þegar líkamskraftur er að mestu leyti búinn til erfiðis, það er að segja sá kraftur, sem fólk hefur haft til að berjast fyrir lífsafkomu sinni og sinna. Svo vill verða fyrir mér, að hugur minn svífur oftlega til baka yfir liðna tíð og tíma, og dvel ég þá oft á austurströnd Manitóbavatns, lít lifnaðarhætti löngu liðinna tíma og minnist þeirra atvika, sem þá gjörðust. Oft hefur verið minnzt á ýmis þessi atvik í ræðum og ritum um frumbyggja Lundarbyggðarinnar, en sú byggð var upphaf allra byggða Íslendinga með austurströnd Manitóbavatns. Síðar færðist byggðin suður austur og norður, og þó mest norður, en lifnaðarhættir munu hafa haldizt þeir sömu, hvert sem byggðin færðist.

Þar sem lítið var um atvinnu og eignir af mjög skornum skammti, mun fiskurinn hafa verið það, sem mest og bezt hjálpaði fólki til að koma fyrir sig fótum. Góður var og fiskurinn til matar, og má segja, að frá upphafi hafi það verið drýgst björg í bú, sem dregin var úr vatninu. Þá var yfirgrips mikinn hvítfisk að fá. Þar sem hvítfiskurinn hrygnir á haustin og gengur þá upp á grynningarnar, sem eru hans hryggningastöðvar, þá hópuðu menn sig saman á þeim stöðvum, oftastnær upp úr fullu októbertungli, til að veiða til vetrarins. Þeir voru ófáir fjölskyldufeðurnir, sem komu með fisk í tunnur úr þeim túrum. Var sá fiskur saltaður, og ef eitthvað var eftir af honum á vorin, var það þvegið og síðan reykt.

Þegar ís leysti af Manitóbavatni, gekk nálfiskur upp á grynningarnar, því vorið er hans hrygningartími, og var þá aftur lagt í selstöð til búbætis fyrir sumarið, og var sá fiskur saltaður og síðan þveginn upp og þurrkaður og geymdist þá allt sumarið. Sumt af voraflanum var reykt, en annað þurrkað fyrir harðfisk, sem hefur lengi verið ljúfmeti íslenzku þjóðarinnar. Þegar vorveiðar voru afstaðnar, var oftast farið að afla brennis, og voru þá grænar viðarstengur settar upp á endann og hallað saman í efri endann, og var kallaður buðlungur. Þegar brennið var sagað niður á vetrin, var það glerhart og þurrt.

Oft var gengið á milli húsa og ýmislegt gert sér til skemmtunar, og var mikið rætt um Ísland og mismuninn þar og hér og ýmislegt fleira svo sem bækur og stjórnmál, og þá sjálfsagt að drekka kaffi með heitum lummum og pönnukökum, en margar betri búkonur áttu alltaf til tvíbökur til að grípa til, er gesti bar að garði. Flestir eða allir munu

hafa komið sér upp jarðeplagarði, en lítið mun hafa verið um aðra garðávexti framan af árum. Man ég eftir, að víða voru búnir til smáhaugar úr moldinni og jarðeplum sáð þar í hvern haug, og var mjög greitt að reita úr þeim illgresi og sömuleiðis að hlúa að þeim á alla vegu í kringum þúfuna.

Næst var farið að búa sig undir heyskap, og varð þá öll fjölskyldan að hjálpa til; konur og börn hrúguðu heyi upp með heykvísl, og vörðust hrúgurnar vel fyrir regni. Allt hey var flutt heim á vagni og því ekið heim að fjósi og sett í langa keggja, og myndu þeir hafa orðið nokkuð miklir fyrirferðar fyrir Orm Stórólfsson að bera á bakinu.

Nauðsynjavörur úr verzlun voru mest hveitimjöl, haframjöl, gerkökur, kaffi, sykur, salt, lyftiduft og steinolía, og eftir því sem efni jukust voru keyptar rúsínur, sveskjur og þurrkuð epli. Lítið var keypt af fötur eða skóm. Flestar konur reyndu að sauma á fjölskyldurnar, og skór voru mikið heimatilbúnir úr nautsleðri og sauðskinnum. Sumir fláðu svín, er þeim var slátrað, og brúkuðu skinnin í skó á vetrin, þar sem þeir frusu ekki eins illa og skór úr nautshúðum. Fitan í svínshúðinni varði þá mikið fyrir frosti og hörku. Plögg voru öll heimatilbúin úr ull og handprjónuð og spunnin heima. Menn sem voru við skepnuhirðing eða fiskiveiðar voru æ v i n l e g a í tvennum sokkum og ósjaldan í þrennum. Þegar snjó bræddi af ristinni þannig að sokkarnir urðu rakir, áttu menn oft erfitt sakir fótakulda.

Smjör var búið til allt sumarið, og mun það hafa verið það mesta, sem fólk hafði til innleggs á haustin. Smjöri var safnað allt sumarið og drepið ofan í trékollur þar til búnar, og voru þrjár kollur í hverju setti sem kallað var. Stærsta kollan tók 60 pund, og ofan í henni var önnur fyrir 40 pund og þar ofan í sú þriðja fyrir 20 pund. Smjör þetta var kallað súrsmjör, og þóttu það miklir peningar, ef 15 cent fengust fyrir pundið, en þá var hveitipokinn frá tveimur og upp í þrjá dali; 18-20 pund af kaffi og sykri kostuðu einn dal, svo það fékkst talsvert af matvöru fyrir hver 120 pund af smjöri.

Þegar opnaðist markaður fyrir fisk, drýgðust tekjur manna mikið, þótt verð væri ekki hátt í samanburði við það, sem nú er, en verð mun hafa verið fyrir hver hundrað pund $3.00 til $3.50 fyrir nálfisk, en $4.00 til $4.50 fyrir hvítfisk; aftur á móti var verð á geddu og birtingi aðeins frá $1.25 til $1.50 hver hundrað pundin. Sugfiskur var ekki markaðsvara og var almennt brúkaður fyrir fæðu handa sleðahundum, sem flestir notuðu í þá daga. Einnig var algengt, að bændur þeir, sem heima áttu nálægt vatninu og höfðu fáein net til búbætis, brúkuðu sugfiskinn fyrir hænsna og svínafóður. Frá fiskverði því, sem að ofan greinir, dróst flutningsgjald frá verstöðvum til markaðs, en það mun hafa verið tiltölulega lágt og í samræmi við markaðsverðið. M a r g u r mun hafa látið fremur vel af fiskveiði í Kanada, því í ljóðakveri Jónasar Mána, er út kom um aldamótin segir svo:

Nú fer ég til Ameríku
einhverntíma í næstu viku,
gull í jörð þar geymt ég á;
lengur ég ei hírist heima,
horlandinu vil ég gleyma,
en ameríska auðinn sjá.

Hvítfisk ég í vötnum veiði,
til Winnipeg hann allan reiði
og sel á „dollar“ sérhvert pund.
Svona' ég auðnum saman moka,
af silfri fylli' ég hærupoka
kannske á einni klukkustund.

Mun það hafa átt sér stað í bréfum til Íslands og eins í samræðum fólks á milli í frumbýlis nýlendum, að samanburður var gjörður á inntektum hér og heima á gamla landinu, en um aldamótin munu hafa verið um þrjár krónur og sjötíu og fimm aurar í dollaranum og verkalaun hér hjá bændum voru aðeins $2.00 til $10.00. Var það stór upphæð í samanburði við verkalaun á Íslandi, sem um aldamótin munu hafa verið frá 60 til 80 krónur á ári. Hér vestra var þá verð á fötum og öðrum nauðsynjum nokkuð í samræmi við kaupgjald.

Þegar rætt er um afurðirnar, má ekki gleyma skyrinu, sem frumbýliskonurnar bjuggu mikið til af. Sömuleiðis var berjatínsla talsvert stunduð, en þá þekktist ekki að sjóða berin niður til geymslu eða þurrka þau. Þannig var nýtingartími þeirra mjög stuttur.

Vanalega var slátrað heima á haustin og kjöt geymt frosið yfir veturinn. Það sem eftir var af vorinu var svo saltað niður. Slátur og svið munu eflaust hafa verið búin út til matar undir vorið. Var þá hvort tveggja súrsað og geymdist þá fram á sumar.

Snemma á tímum eignuðust menn byssur, og var mikið skotið af öndum, rjúpum og skógarhænum, og voru þetta mikil búdrýgindi á vetrin. Talsvert veiddist og af hérum. Voru þeir teknir í vírsnörur. Þar sem hérarnir hlupu venjulega sömu slóðina, þurfti ekki annað en að leggja snöruna yfir slóðina. Ekki munu íslenzku frumbyggjarnir hafa lært að notfæra sér héraskinnin, og fór þeim að því leyti ólíkt Indíánunum, sem rifu héraskinnin niður í lengjur, þurrkuðu lengjurnar, brugðu þeim síðan utan um snæri og fléttuðu í teppi. Teppi þessi voru frábærir feldir, svo hlýir, að hægt var að sofa undir þeim í hvað köldu sem var.

Byggingar á fyrrgreindum slóðum voru allar úr bjálkum á því tímabili, sem hér um ræðir. Fjós voru þakin rafti og leir felldur að raftinum til varnar leka. Hús voru flest með timburþaki, en þar sem efni var af skornum skammti, voru þök 'checkuð', eins og það var kallað. Voru þá raftarnir með löngu strái, sem nefnt var þakstrá. Mun það hafa fengið nafnið af því, að hægt var að leggja það í þök líkt og þakspæni með því að láta legg strásins vísa niður í áttina að þakskegginu. Síðan var öðru lagi af þakstrái bætt ofan á fyrra lagið, og var það látið ná niður fyrir undirlagið við þakskegg. Þegar þakið var að fullu hulið, var hellt leir í og límdust þá stráin saman, og þannig var unnt að halda úti leka langtímum saman, en stundum vildi leirinn springa og stráin fúna, þegar fram liðu stundir, og þá lét slæmur lekinn ekki á sér standa.

Fram eftir árum var lítið um samkomur í íslenzku byggðunum við Manitóbavatn. Meira en áratugur leið, áður en samkomuhúsi var komið upp, en einhver gleði mun alltaf hafa verið um jól. Fólk heimsótti hvert annað, og munu flestir hafa reynt að hafa hangikjöt til matar,

og laufabrauð var bakað og aðrir íslenzkir réttir reiddir fram. Tiltölulega snemma í sögu byggðarinnar munu menn hafa reynt að ná sér í flösku fyrir jólin, en jólagjafir voru takmarkaðar að undanteknu því, sem ungar stúlkur úr fjölskyldunni fluttu með sér heim til gleðiauka um jólin frá Winnipeg, þar sem þær höfðu þá atvinnu.

Um veiðiskap á landi er það helzt að segja, að dálítið var veitt af vatnsrottu í umræddum byggðum. Nóg var um vatnsrottu, en verð á slíkum afurðum var lágt. Man ég, að maður einn, sem var í fyrsta hópnum, sem kom norður á byggðalönd okkar, sagði mér, að eitt sinn á útmánuðum hefðu hann og annar maður með honum farið fótgangandi suður til Mission, sem nú heitir St. Laurent, og keypt eitt dúsín af rottugildrum fyrir einn dollar. Þeir gengu fram og til baka samanlagt um fjörutíu mílur, og þegar þeir fóru að veiða í þessar tólf gildrur, fengu þeir rottu í hverja gildru kvelds og morgna, og veiddu þeir því um sjötíu rottur á viku, en veiðin hélzt aðeins í tvær vikur. Þá fóru þeir að selja, en fengu aðeins fimm cent fyrir hverja rottu, svo að inntektirnar urðu aðeins sjö dollarar fyrir báða, og þurfti síðan að draga frá dollarann, sem þeir guldu fyrir gildrurnar. Þá höfðu þeir sex dollara eftir eða þrjá hvor fyrir tvær vikur og mikinn gang og vosbúð, því ekki höfðu þeir neinar fótverjur til að vaða í út á veiðisvæðið, en rotturnar héldu sig úti í flóadýkjum, og fannst þeim félögum atvinnan því léleg.

Eftir þriggja til sex ára dvöl í fyrstu íslenzku byggðinni við Manitóbavatn tóku nokkrir af frumbyggjunum að færa sig lengra norður með vatninu, og myndaðist þá byggðin, sem kölluð var Narrows byggð og Sömuleiðis Siglunes byggðin, og ef mér endist ævin til, ætla ég að minnast þeirra byggða síðar.

Tímabil það, sem höfundur ræðir í grein sinni, nær frá aldamótum til ársins 1911.

Skáldkonan Helen M. Llyod, höfundur hinna snildarfögru ljóða hér í ritinu, er íslenzk í föðurætt — dóttir tónskáldsins Sveinbjörns Sveinbjörnssonar. Hún er einnig listmálari eins og bróðir hennar, dr. Þórður, sem einnig fæst við tónsmíðar. Helen missti mann sinn fyrir mörgum árum frá þremur börnum, þá ungum. Þau systkinin hafa búið um langa tíð í Calgary. Hún hefir átt við heilsuleysi að stríða um nokkur undanfarin ár, en er nú á batavegi. Móðir þeirra verður hundrað ára á næsta ári, ef henni endist aldur til.

GÍSLI JÓNSSON:

# Ýmisleg sjónarmið

1.

Hvað er sannleikur? spurði Pílatus forðum daga. Fáir aðrir hafa víst oftar fengið álas fyrir svona spurningu. Þó er varla hugsanleg önnur spurning, eins og á stóð. Pílatus var menntaður Rómverji, sem fannst fátt um skoðanir þessara þrætugjörnu undirsáta sinna. Frammi fyrir honum stendur fátæklegur draumamaður, sem að vísu játar að hann sé konungur, en segir að sitt ríki sé ekki af þessum heimi. Hins vegar er þröngsýn prestastétt; og allir fullyrða að þeir segi sannleikann. Hinn sakborni er kærður fyrir guðlast, sem að prestanna dómi er dauðasök; en þegar það stoðar ekki, er landráðum smeygt inn, og gegn slíku varð Rómverjinn auðvitað að standa á verði. Hér var ekki um neinn sannleika að ræða, en ótal margt svipaðs eðlis er nefnt sannleikur, sem þó er aðeins fullyrðingar. Það dugar ekki lengur að fullyrða, að eitt eða annað sé sannleikur, af því að okkur var kennt það í æsku. Til dæmis var okkur innrætt, að trúarbrögðin væru heilagur sannleikur, sem þó, þegar bezt lét, var aðeins hugargrufl löngu liðinna kynslóða um tilveruna. Og enn spyrja menn: Hvað er sannleikur, óyggjandi sannleikur?, og verður mönnum þá vanalega þungt um svörin. Ef til vill er það stærðfræðin, sem helzt leysir þá spurningu. Enginn þorir að neita því, að tveir og tveir séu fjórir. En nú er mannfélagið orðið svo margþætt og úrskurðir vísindanna svo ótæmandi, að maður verður að láta sér lynda að taka trúanlegt svo margt, sem manni mundi ekki endast aldur til að sanna, líkt og þegar sá sem fæðist blindur veit ekki hvað ljós er, né heldur sá, er fæddist heyrnarlaus veit hvað hljóð er, en báðir verða að trúa og reyna að skilja það sem sjáandi og heyrandi maður segir þeim. Um þetta mætti spjalla óaflátanlega.

2.

Nýlega las ég bók um lífið á jörðunni — indæla bók, sem byrjar á vorinu, þegar allt er að vakna til nýs lífs. Jarðargróðurinn og skordýrin virðast vera í kapphlaupi um að fylla tilveruna nýjum unaði. Þá koma fuglarnir, skrautbúnir, eins og fegurstu blóm og fylla loftið með fjaðraþyt og söng — óteljandi grúi, örsmáir og stórir. Fuglarnir veita manninum mestan unað og eru því vinir okkar eða ættu að vera það, auk þess sem þeir hafa kennt mannkyninu að syngja. Þeir lifa af þeim dýrum, auk gróðursins, sem manninum eru mest til armæðu, og samt drepa menn þá. Fyrir eru ferfætlingarnir, spendýrin, allt frá minnstu hagamús upp í stærstu hirti og birni, þeir eru yfirleitt ekki raddfagrir. Froskdýrin, sem fyrr á tíð réðu lögum og lofum, virðast að vera á útleið, þótt eftir séu nú helzt froskar og krókódílar, og eitthvað

þar að auki. Allt þetta líf virðist önnum kafið og ánægt í sumardýrðinni. Jafnvægið sýnist alls staðar ráðandi á yfirborðinu. Líklega er ekkert jarðlíf eins dularfullt og sérstætt og skordýrin; þau voru að líkindum fyrsta líf jarðarinnar og verða sjálfsagt þau er lengst lifa þar. Ekki er ólíklegt, að mannkynið hafi fengið sína barnalegu trú um upprisu og annað líf frá þeim. Tökum eitt dæmi: Örlítið egg verður að lirfu í votri moldinni, skríður upp á græn laufblöð og verður að tólffótungi, sem etur margar þyngdir sínar af blaðgrænu á dag. Eftir að hafa etið sig í kút, dregur hann sig saman og vefur um sig hýði og deyr, að því er virðist, en að nokkrum tíma liðnum sprengir hann af sér hýðið og út kemur, ekki tólffótungur, heldur skrautbúið fljúgandi fiðrildi, sem einskis annars gætir sem eftir er sumarsins en að fljúga með öðrum fiðrildum í ást og unaði. Sannarleg upprisa og annað líf! Býflugur og maurar hafa vel skipulagt samfélag og ólíkt manninum eru fædd fullkomin, óskólagengin, hver í sinni stöðu. — Bókin gefur í skyn, þótt hún segi það hvergi beinlínis, að þar sem maðurinn er hvergi nálægur, þar haldist jarðlífið í jafnvægi, enda þótt því verði ekki neitað, að allt líf lifir af öðru lífi — skordýrin eta gróðurinn og hvert annað, fuglar eta fræ, skordýr og önnur smákvikindi, rándýrin svonefndu drepa önnur stærri dýr, og jórturdýrin bíta gras. En svo að segja öll hin vilta náttúra drepur aðeins sér til lífsviðurhalds, með enga sér meðvitandi grimmd eða eyðileggingu í huga. En svo kemur maðurinn og drepur allt, ekki eingöngu sér til lífsviðurværis, heldur til að svala grimmdarkröfunni, og svo langt fer hann, að hann drepur sitt eigið kyn unnvörpum. Það gerir engin önnur skepna jarðarinnar. Kannske stafar það af því, að fyrir ofan manninn er ekkert vitrara og sterkara dýr, sem haldið geti fjölgun hans í skefjum, og er þá engan um að saka nema skaparann.

3.

Á þessum verstu og síðustu tímum, eins og meistari Jón svo oft komst að orði, ber það sjaldan við, að maður fái í hendur nýja íslenzka bók. En rétt fyrir skemmstu lánaði vinkona mín mér eina slíka bók. Hún ber nafnið Merkir Íslendingar. Ég varð öldungis forviða. Hún er talin fjórða bindi í nýjum flokki, sem bendir til að á undan þessum fjórum bindum hafi verið einn eða fleiri flokkar. Ekkert sýnir heldur, að þetta eigi að verða síðasta bindið. Hugsum okkur, að átta til tíu bindi séu nú út komin með að jafnaði fjórtán til fimmtán menn í hverju bindi, þá gerir það álitlegan hóp. Öll hafa þessi æviágrip, og reyndar fleiri, er ég hefi lesið annars staðar, það sameiginlegt að lýsa mönnum svo, að þeir voru öllum kostum búnir, en í engu ábótavant, nema ef til vill ævisaga Péturs biskups eftir Grím Thomsen. En svo bætti Þorvaldur Thoroddsen, tengdasonur biskupsins, það upp með stórri bók. Eftir lestur slíkra bóka fær maður ósjálfrátt þann hugblæ, að hér sé ekki eingöngu um merka menn að ræða, heldur um helga menn — dýrlinga. Kathólska kirkjan lét sér hægt um hönd að gera alla þá að dýrlingum, sem mest

og bezt efldu vald kirkjunnar, og bættu þeir þá vanalega upp með hnefafylli af kraftaverkum. — Ég þráttaði stundum við góðvin minn, prest, um þetta. Hann hallaðist heldur á þá sveifina, að hvern einn mann ætti helzt að róma fyrir það sem hann hefði bezt gert þjóð sinni eða mannfélaginu í heild sinni til heilla — hitt varðaði minnu og mætti því gleymast. Hann trúði sterklega á góðvildina í manneðlinu og sagði, að þegar öllu væri á botninn hvolft, þá væru allar endurbætur í mannfélaginu beztu mönnum þess að þakka, en ekki neinum yfirnáttúru öflum. Hann sagði einu sinni í gamni og alvöru, að allar hátíðir ársins mættu leggjast niður, því þeirra rétti uppruni væri hvort sem er löngu gleymdur, en í þeirra stað ætti að koma ein allsherjar stórhátíð. — Allra heilagra messa; og átti hann þar auðvitað við mestu velgjörðarmenn mannkynsins, en ekki við neina ímyndaða dýrlinga eða helga menn.

4.

Einhver sagði, að Íslendingar væru eina þjóðin, sem gæti stært sig af því, að hafa innleitt kristna trú með lögum án bardaga eða blóðsúthellinga. Þetta lætur náttúrlega vel í eyrum, en með því er þó sagan lítið meira en hálfsögð. Það sem úrslitunum réði var þvingun og svikráð. Í fyrsta lagi hélt Ólafur kóngur heilmörgum íslenzkum höfðingjasonum í nokkurs konar varðhaldi, og hans kristinboð var sjaldan mjög kristilegt, feðurnir gátu vel séð hvað í hófi var, ef kristnitakan misheppnaðist. Heimafyrir á alþingi lenti allt í öngþveiti svo við lá bardaga. Fundu kristniboðarnir upp það bragð, að fá þingsamþykkt þess eðlis, að fela heiðnum goða norðan úr landi að gera úrskurð í málinu. Er svo að sjá, að þeir hafi hellt karlinn blindfullann og mútað honum til að úrskurða þeim í vil. Eitt er víst, að karl skreið inn undir uxahúð og lá þar hreyfingarlaus það sem eftir var dags og næstu nótt. Morguninn eftir rís hann úr rotinu og heldur viturlega ræðu að Lögbergi um, að friður í landi sé meira virði en trúarbrögð. Lýsir hann síðan yfir, að allur landslýður taki kristni og láti skírast. Breytingin var ekki ýkja mikil í fyrstu. Skipti á guðum voru ekki svo alvarleg í augum fólksins. Helgi magri trúði bæði á Krist og Þór, og fór víst nógu vel á með þeim. Tvö ákvæði voru gerð til að byrja með, sem virðast að hafa verið talin álíka mikilsverð. Eitt var um afnám barnaútburðar, hitt um hrossakjötsát, sem þó var leyfilegt í laumi. Vitanlega voru landsmenn eins heiðnir eftir sem áður og eru það reyndar enn að sumu leyti eftir 968 ár. En það er frá Þorgeiri að segja, að hann fór heim til sín í fullri trú, að hann hefði spornað við uppreisn í landinu, og öðrum til fyrirmyndar steypti hann öllum goðalíkneskjunum í fossinn, sem síðan heitir Goðafoss. Hann gat vel staðið sig við að kaupa fáein Maríu- og postulalíkneski fyrir mútupeningana til að hreykja upp á stalla í hofinu, sem upp frá því varð að heita kirkja. En svo koma biskuparnir til sögunnar og umturna flestu. Mér er enn í nöp við Jón Hólabiskup, enda þótt hann væri talinn ljúfmenni og afbrigða söngmaður. Hann kom því til leiðar, að ýmsum nöfnum var

breytt eða þau afnumin úr málinu, til dæmis nöfnum vikudaganna: þriðjudagur, miðvikudagur, fimmtudagur og föstudagur komu í stað Týsdagur, Óðinsdagur, Þórsdagur og Frjádagur, sem auðvitað varð að víkja fyrir krossfestingardeginum, þegar allir urðu að fasta. Enskan heldur enn gömlu nöfnunum, enda þótt fæstir enskumælandi menn viti nú lengur um uppruna þeirra. Enginn þorði samt að hreyfa við jólunum. Jólnir er eitt af nöfnum Óðins, segir Snorri, og er jól frá því komið. Jólnir var vafalaust guð ljóssins og jólin því hátíð ljóssins, þegar sólin slapp úr gini úlfsins eftir stytzta dag ársins. Aftur fékk hátíð vorgyðjunnar hið ömurlega nafn páskar, sem ekki rímar við nokkurt orð í málinu nema þá helzt gáska og háska. Í enskunni varð Kristmessa samt yfirsterkari, þótt í viðlögum sé enn sagt Jule. En hún slapp við Páskana, og hélt sér við Easter, sem dregið er af nafni vorgyðjunnar Eostra, sem vel gæti verið skylt orðinu austur, því vorsólin rís í austri, þótt fræðibækur geti þess ekki. En svo var hvítasunnunni bætt við í minningu þess, að vesalings lærisveinarnir drukku sig góðglaða í þrumuveðrinu og fóru að spreyta sig á því að halda ræður á öllum þeim mállýzkum, sem þeir höfðu lært á flökkupredikardögum sínum, meðan meistari þeirra lifði.

5.

Öllum þykir lofið gott, segir gamall málsháttur. Óneitanlega er ánægjulegra að hlusta á lofsamleg hlýyrði en lastmælgi og hatur. En maður verður að vera viss um að eiga lofið skilið, auk þess sem of mikið af því sama getur orðið þreytandi og jafnvel hættulegt. Allir kannast við vísu Steingríms: „Með oflofi teygður á eyrum var hann," hann óx ekkert við oflofið, en „það voru aðeins eyrun sem lengdust." Stundum hefir verið sagt um unga rithöfunda, að þeim hafi aldrei farið fram, af því að þeir hafi fengið of mikið hrós fyrir fyrstu bókina sína. Ég þekkti um eina tíð mann, ágætan dreng á margan hátt og fjölhæfan, en það var ekkert gaman eða ánægja í því að hrósa honum fyrir vel unnin verk, af því að honum þótti hrósið aldrei nógu mikið — bætti jafnvel við frá sjálfum sér. Íslenzkur merkisprestur sagði einhverju sinni, að krítik væri hollari en lof, ef hún væri sögð af kærleika, og munu margir geta verið því samþykkir. Í samkvæmislífinu þykir það kurteisara að hrósa heiðursgesti fyrir verk hans, þótt ræðumaðurinn hafi aldrei lesið orð af því, sem hinn hefir skrifað. — Ég hefi stundum orðið var við þetta í sambandi við mín lítilmótlegu skrif. En einu sinni stakk þó skemmtilega í stúf. Í grein um vinnubrögð mín í æsku gat ég þess, að enn mundi ég geta riðað silunganet, ef ég hefði áhöldin. Skömmu síðar fékk ég bréf og böggul frá fornkunningja vestur við haf. Hann segist hafa lesið greinina mína, en í bögglinum voru netnál og riði — óyggjandi sannindamerki.

6.

Um langan aldur hefir sú kynlega freistni ásótt mig að skrifa grein um stafrófið, þessi undarlegu strik, sveiga og króka, sem menn hafa um aldaraðir fest á börk og blöð, bókfell og skinn til þess að varðveita

hugsanir orð og gjörðir fortíðar og samtíðar mannkynsins. Stafróf er fallegt orð og ólíkt víðtækara og rishærra en alphabet, sem er bara fyrstu stafirnir í forn-gríska stafrófinu. En því oftar sem ég hefi hugleitt þetta og lesið um það og kynnt mér það, því hugdeigari hefi ég orðið. Ég komst einu sinni yfir bók um starfrófið, en því miður fékkst hún um of um þróun eða vanþróun enskrar stafsetningar. Hún gat að vísu um Rósettusteininn og Egypta, Assyríu og Babylon, og hvernig þeirra skriftir breyttust, þangað til reglulegir bókstafir mynduðust, en hún sagði fátt um hebresku og forngrísku stafróin og alls ekkert um rúnirnar norrænu. Kínverjar halda sé enn við einstakar táknmyndir orða í stað bókstafa. Dásamlegustu táknorð gáfu Arabar okkur í tölustöfunum 1, 2, 3, 4, o. s. frv., sem allir skilja og bera fram hver á sinni tungu, Stærstu straumhvörfum í veröldinni mundi það valda, ef hægt væri að semja eitt allsherjar bókmál á sama grundvelli og tölurnar, mál sem allir gætu lesið og borið fram með sínu eigin tungutaki. Kínverjar eru þar að vísu á réttri leið, en þeirra myndletur mun allt vera um of einskorðað. — En áður en ég skil við þetta að fullu langar mig til að mótmæla hátt og í heyrenda hljóði, að á Íslandi hafi ekkert ritmál verið til fyrr en kathólskan innleiddi latínuskriftina. Mér liggur í léttu rúmi, þótt fræðimenn kalli mig aulabráð, ég er hvort sem er kominn á hundraðsára aldurinn og á ekki af miklu að láta. En hvað sem hver segir voru rúnirnar til og eru það enn, og óefað miklu fleiri rúnameistarar til en sögurnar nefna, og á þeim hafa vafalítið eddukvæðin, skáldakvæðin, lögin og önnur fræði geymzt. Annars hefði að líkindum allt verið skrifað á latínu, sem klerkarnir einir kunnu. Kirkjan stimplaði rúnirnar sem galdrastafi til þess að tortryggja þær eins og allt annað sem heiðið var — gerðu jafnvel guðina að djöflum. Egill var rúnameistari jafnframt því að vera skáld. En enginn lifandi maður hefði getað ort Höfuðlausn á einni nóttu og flutt hana reiprennandi næsta morgun eftir minni. Hann hlýtur að hafa markað kvæðið á spjald (bundið) jafnframt og hann orti. Sama mætti segja um Sonatorrek. Margir ristu óvinum sínum níð, og til hvers var að rista níð, ef enginn gat lesið? Ari, hinn orðvari klerkur, gefur óbeinlínis í skyn, að ritmál hafi verið til fyrir kristni. Hann segir í Íslendingabók svo: „Þá var nýmæli það gjört, að lög vor skyldi skrifa á bók," sem bendir átakanlega til þess, að þau hafi verið áður skrifuð á annan hátt. Bókarstíllinn kom út um allan heim á eftir keflisvafningum og inn-og-út-brotinu, sem Egyptar brúkuðu jöfnum höndum við vafningana.

7.

Skotthúfan skrýðir enn
skrautgjarna kvenmenn,
hárprúðar heimasætur,
hreinlífar bændadætur,
pilsvíðar prímadonnur,
piparmeyjar og Önnur.

Þetta passíusálma söngla á nú víst ekki lengur við, nema þá helzt á Íslendingadegi, sem nú kvað þó hafa eignazt nýtt aukaefni í samræmi við ýms ný spádómsrit, og tvímælgina nýju, sem allir eiga nú að iðka um landið allt. Ætti þá líklega

betur við að syngja þessa vísu Jónasar, lítið eitt endurskoðaða:

Þar eru blessuð börnin frönsk
með bláa de Gaulle húfu,
og yfirvöldin illa ensk
á Ottawastjórnar þúfu.

En þetta var nú ekki ævinlega svona. Þegar þeir Laurier og Sifton opnuðu flóðgáttirnar fyrir allra landa fólk um og eftir síðustu aldamót til að byggja upp vesturlandið, var ekkert vandræðaskraf um framandi tungur. Allir áttu að fara í deigluna með tinhnöppum Ibsens og verða enskir á einum mannsaldri. Einkunnarorðin fyrir skólana voru: ein þjóð, ein tunga, eitt flagg. En einhvern veginn blessaðist þetta ekki í svipinn. Þá kom upp úr kafinu litrófshugmyndin, eða mosaik planið, þar sem allir áttu að leggja eitthvað til af menningararfi þjóðar sinnar til að fylla upp Ginnungagap menningarsnauðra sléttubúa. En nú virðist þetta allt vera á leiðinni ofan í glatkistuna, og í þess stað á að koma, ekki ein þjóð, ein tunga, heldur tvær tungur, því

gott er að hafa tungur tvær
og tala sitt með hvorri.

En hvað verður þá um okkur alla hina, sem tala kínversku, rússnesku, ítölsku og íslenzku og enn fleiri tungur?

8.

Kvæðið, Draumurinn, hér framar í ritinu, er byggt á þeirri tilgátu, að hefði sköpunarverkið farið fram á sex dögum, eins og stendur í hinni fornu bók, þá hafi fyrsta foreldri mannkynsins verið kona, að vísu tvíkynja eins og blómin, en svo hafi henni brátt leiðzt að ala eingetin börn, og því komið því til leiðar, að börnin urðu ýmist drengir eða stúlkur. Karlmaðurinn var því nokkurskonar eftirþankar tilverunnar, sem konan gerði strax að vikadreng, elskhuga og ráðsmanni í búinu. Þetta er náttúrlega ekki sannanlegt fremur en aðrar biblíusögur, en þó engu óaðgengilegri en hin, að fyrsta manninum hafi verið mokað upp úr leirflagi og skaparinn svo gert þar mynd af sjálfum sér, og síðan bögglað saman konunni utan rifbein.

9.

Frá aldaöðli hefir vort vestræna mannfélag verið í vandræðum með Tímatalið. Eiginlega byrjaði það strax með glappaskoti skaparans, þegar hann hnoðaði jarðhnöttinn í lófa sínum og kastaði honum út í geiminn og lagði fyrir, að hann færi í kringum sólina og kæmi til baka á sama stað eftir ákveðinn tíma. Líklega hafa það samt verið stærðfræðingarnir þarna upp á englaskrifstofunni, sem misreiknuðu annaðhvort fjarlægðina frá sólinni eða hraða jarðarinnar í kringum hana, því þegar hún átti að vera komin til baka voru liðnir 365 dagar og hún hvergi sýnileg. Eftir sex klukkustundir og nokkrar mínútur kom hún loks másandi og blásandi inn á stöðina og var þá orðið of seint að laga skekkjuna. Skaparinn mundi þá eftir, að hann átti eftir í pokahorninu heilmikið af mold og grjóti, svo hann hnoðaði úr því aðra kúlu, kastaði henni spölkorn út fyrir jörðina og nefndi hana Mána. Fer hann í kringum mömmu sína á 28 dögum, og er það kallað mánuður. En af því að hann er of latur til að snúast um sjálfan sig, þá

goblin while he spends the night in a deserted logging camp. In another instance, a farmer and his wife search through the forest trying to locate the source of a girl's 'anguished' cries which are later discovered to 'follow' a travelling cattle buyer who had accidentally shot her to death.[18]. And, a man is 'followed' by the shadow of a young man whose death he had been indirectly responsible for on an ice fishing expedition.

The most striking feature of these 'Icelandic-Canadian' legends is the encounter with the ghostly Indian. A story is told of a young man, newly arrived from Iceland who sees a naked Indian boy lying in his foreman's bed and later discovers that he had been murdered for gold, many years before. Another story tells of two men transporting fish who make a stop for the night at a remote fishing camp. A shack haunted by Indians is the only available lodging; they discount this as being of no consequence but during the night an attempt is made to kill each of the men.[19].

In a similar setting, two young men have stopped for the night in a fisherman's hut; one of them sees a number of headless Indians dancing with their heads under their arms, and rather than remaining there, insists on travelling another eighteen miles over ice to the nearest habitation.

One of my informants was the late Guttormur J. Guttormsson who told me another, slightly different 'Indian' story. When he was very young he was once surprized by an Indian sitting up in the sleeping loft of his home. This creature had a blanket draped over his shoulders and stared at him "með tinnusvört augu." Sitting at the bottom of the staircase, Guttormur waited for him to come down but he didn't and later that evening when he was sent up to bed, the loft was deserted. There was no rational explanation as to how the Indian could have left the house unnoticed.

As I have tried to show in this report on the folklore of New Iceland (where Icelandic culture in North America is perhaps on its most even footing with those of other ethnic groups) there are definite bonds which have been maintained with Icelandic folk tradition but mostly in terms of the more flexible, less elaborate genres — the strophe, humorous anecdote, and supernatural legend. However, these forms of expression seem to be, and have been, an adequate means for the immigrant and later generations of creatively interpreting the Canadian social and physical setting; in part, perhaps, their popularity has been responsible for preventing more extensive 'borrowing' in the realm of popular, spiritual culture.

## NOTES

1. This material has been deposited with the folklore Division of the National Museum of Canada. A portion of it has been translated and annotated and is available in manuscript form at the Museum. When examples for this paper have been drawn from this manuscript (A SELECTION OF ICELANDIC-CANADIAN FOLKLORE) I have included the item number in the Notes. Other examples are drawn directly from the tapes and field notes which have as yet not been adequately classified.

Because I have not had time to contact all the informants whose material I have either quoted or paraphrased I have chosen to avoid giving their names, and I have also taken the liberty of changing proper names in the stories themselves. If anyone feels a need to take issue with this I may be contacted through the Folklore Institute of Indiana University.

2. Einarsson-Mullarký, Magnús. A SELECTION OF ICELANDIC-CANADIAN FOLKLORE. In manuscript. 1968. Item No. 41.

3. **Ibid.**, item No. 39.

Translation: Ja, what a lot of difference there is to listen to you compared with my former wife. With her it always went "drollin, drollin, drollin" into the damned wooden chamber pot, but with you it always goes "singlum, singlum, singlum".

4. **Ibid.**

5. Some find other tree types more effective.

6. The translation of **brunnur** is well. The giving of referential epithets was common in New Iceland until perhaps 20 to 30 years ago.

7. Einarsson-Mullarký, No. 51.

Translation: Sigurður was thought to be simple, but a very good farmer. Geir Skordal lived a little further east and sometimes made fun of Sigurður, and Sigurður disliked it but was no match for Geir.

One time a political emissary came to Sigurður to collect votes. He asked immediately what they were now going to be voting for, and it was replied that a new government in Ottawa — east in Ottawa was to be voted for. It didn't take long, then, for Sigurð to make his position clear: "I'll vote for no damned government which has a home east of Geir Skordal".

8. **Ibid.**, No. 52.

Translation: Hörður Bárðarson, a farmer here in New Iceland, was milking. His neighbours came to him to discuss something with him, and the cow steps into the pan; he was milking into a pan. And, so he — so then Gunni says to him — Gunni Jónsson to him — his neighbour, "Well, now you are going to have to throw this milk away."

"Nothing doing! Nothing doing! I'll put this in the separator and separate everything".

9. "How could you do this my dear?"

10. The translation of these storphes is only meant to give a rough idea of the content: After difficulty many become stranded /Still at Sandy bar/Gladdens the spirit of good fellow countrymen/the Galician wet there.

11. Einarsson-Mullarký, No. 36.

Translation: The Soul-shepherd placed before them/Jesus Krist in a large box/ Our countrymen didn't say a word/but ate Him with the best of appetite.

12. Translation: Surely I am sure of it/ So it may be printed/That never a fine lady companion/I'll get into this shanty.

13. Einarsson-Mullarký, No. 56.

Translation: A pretty girl, with a round face, in a black skirt which she dragged behind her: just really pretty.

Skotta, Eyjaselsmóri, and Þorgeirsboli are well known family fetches.

14. **Ibid.**, No. 58.

15. Literally 'hidden people' and elves: the terms are synonymous in useage.

16. **Ibid.**, No. 71.

17. Elve hill or citadel.

18. **Ibid.**, No. 60.

19. **Ibid.**, No. 62.

RICHARD BECK tók saman

# Mannalát

## Meðal Íslendinga vestan hafs

### SEPTEMBER 1965

25. Runólfur Björnson, á Elliheimilinu „Stafholti" í Blaine, Wash. Fæddur í Hornarfirði 14. marz 1875. Kom vestur um haf 1898.

Á því ári (eða 1966) Andreas Guðmundson, Long Island, New York.

### MARZ 1967

11. Carl Hanson, byggingameistari, í Winnipeg, hniginn að aldri. Ættaður af Austurlandi.

### APRÍL 1967

10. Rósa Hannesson, ekkja Jónasar Hannessonar, á heimili dóttur sinnar og tengdasonar í grennd við Mountain, N. Dakota. Fædd 6. júní 1863 að Dalakoti á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Teitur Teitsson og kona hans Anna Stefánsdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf til N. Dakota 1883, en þau námu land í Garðarbyggð.

13. Guðmundur Sveinbjörnsson, yngri, í Churchbridge, Sask. Fæddur 25. apríl 1886.

### MAÍ 1967

16. Ólöf Björnsdóttir Jónssonar, kona Camoens Helgason, í Churchbridge, Sask. Fædd 28. apríl 1888.

### SEPTEMBER 1967

7. Thorey Björnson, ekkja Sigurðar I. Björnssonar, á sjúkrahúsi í Cavalier, N. Dak. Fædd í Skagafirði 26. ágúst 1885. Foreldrar: Þorleifur Ásgrímsson og Sigurlaug Sigurðardóttir. Kom til Vesturheims 18 ára gömul, var fyrstu fimm árin í Manitoba, en síðan í N. Dakota.

15. John Brandur Guðmundsson, á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask., áður bóndi í grennd við Elfros, Sask. Fæddur í Brownbyggðinni (nálægt Morden), Manitoba, 6. des. 1903. Foreldrar: Timoteus Guðmundsson, ættaður úr Dalasýslu, og Þorbjörg Hallgrímsdóttir, ættuð úr Vopnafirði.

17. John Lewis Stefánsson, í Seattle, Wash. Fæddur þar í borg 21. ágúst 1927. Foreldrar: Sigurður J. Stefánsson, frá Bjargi í Miðfirði í Húnavatnssýslu, og Ena Kristjánsdóttir Hafliðason, fædd í Nýja Íslandi, en ættuð úr Mýrasýslu.

27. Þorlákur F. Björnsson, landnámsmaður, á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask. Fæddur að Gimli, Man., 18. júlí 1878. Foreldrar: Friðbjörn Björnsson, frá Fornhaga í Hörgárdal, og Anna Arnadóttir, prests að Bægisá, er fluttu til Mountain, N. Dak., 1879.

### NÓVEMBER 1967

23. Stefanía Björnfríð Magnússon, ekkja Jónasar Magnússonar, á sjúkrahúsinu að Gimli, Man. Fædd í grennd við Riverton, Man., 1877. Foreldrar: Lárus Þórarinn Björnsson og Guðrún Stefánsdóttir, bæði Skagfirðingar, er komu með „stóra hópnum" 1876 til Nýja Íslands og námu þar land.

### JANÚAR 1968

4. Guðmundur Matthías Bjarnason, húsamálari, á elliheimilinu „Betel", Gimli, Man. Fæddur að Svelgsá í Helgafellssveit í Snæfellsnessýslu 5. júlí 1871. Foreldrar: Bjarni Jónsson og Ingibjörg Helgadóttir. Fluttist til Vesturheims árið 1900 og átti heima í Winnipeg nema síðustu fimm árin.

9. Oddný Pálína Sigurdson (ekkja Einars Sigurdson), að Oak View, Man., 96 ára að aldri.

11. Jónína Solveig (Bjornson) Rockett, ekkja William Rockett, gestgjafa, í Riverton, Man., níræð að aldri.

13. Kathy Jean Miller, í Seattle, Wash. Fædd þar í borg 4. okt. 1948. Foreldrar: Jack Warren og Dagrún Dorothy Miller, dóttir séra Kolbeins Sæmundsson og fyrri konu hans, Gróu Helgadóttur Þorsteinssonar.

14. Helga Guðrún Hallson, í Winnipeg, 75 ára að aldri. Foreldrar: Hallgrímur Hallgrímsson og Jakobína Kristín Bjarnadóttir að Hólabæ í Bólstaðarhlíðarhreppi, Austur-Húnavatnssýslu. Kom til Vesturheims árið 1913.

14. Gísli Stefán Gíslason, að Lundar, Man., 64 ára gamall. Foreldrar: Thorsteinn og Hólmfríður Gíslason.

15. Edwin Erlendson, í Selkirk, Man., 37 ára að aldri.

29. Kristine Anderson, í Winnipeg, 84 ára gömul. Fyrrum til heimilis í Sacramento, California, og í mörg ár að Fairford, Man.

**FEBRÚAR 1968**

3. Dr. Gudmund G. Thorgrimsen, fyrrv. læknir í Grand Forks, N. Dak., í Spokane, Wash. Fæddur 18. maí 1894 í Sioux Falls, S. Dakota. Foreldrar: Séra Hans B. Thorgrimsen og fyrri kona hans (fædd Stub), af norskum ættum.

3. Lilly Helga MacIntyre, í Winnipeg, 95 ára að aldri. Fædd á Íslandi, flutti til Canada 1890, og átti heima í Winnipeg síðustu 65 árin.

4. Vigfús Freeman Westman, í Winnipeg, 75 ára gamall. Búsettur þar í borg mestan hluta ævinnar.

12. Gunnlaugur Kjartan Oddson, bóndi, að Geysir, Man., 47 ára. Fæddur þar og átti þar heima ævilangt. Foreldrar: Vilhjálmur og Emilía Oddson.

13. Einar S. Jónasson, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur á Gimli 15. apríl 1921. Foreldrar: Einar Jónasson, fyrrum fylkisþingmaður fyrir Gimli kjördæmi, og kona hans Anna Pétursdóttir Tergesen, kaupmanns á Gimli.

13. Jónína Westman, í Winnipeg, 77 ára að aldri. Fædd í Mikley, Man., átti lengi heima í Árborg, en síðustu þrjátíu árin á Gimli og í Winnipeg. Foreldrar: Pétur Bjarnason, hómópati, frá Miðnesi í Gullbringusýslu og Hólmfríður Jósefsdóttir frá Hrísum í Helgafellssveit.

18. Margrét Thorsteinson, ekkja Jóns Thorsteinson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 77 ára gömul. Fædd í Winnipeg, hafði lengi átt heima í Langruth og Steep Rock, Man.

22. William Anderson, í Edmonton, Alberta. Fæddur í Argyle-byggðinni í Manitoba 27. okt. 1889. Foreldrar: Landnámshjónin Jón og Guðrún Anderson, er flutt höfðu þangað snemma á árum beint frá Íslandi.

24. Helgi Albertsson, að Árnes, Man. Fæddur að Hólsseli á Fjöllum í Norður-Þingeyjarsýslu 27. des. 1883. Froeldrar: Indriði Albert Jónson og Björg Jónasdóttir. Fluttist til Vesturheims með foreldrum sínum 1895, og settist fjölskyldan að í Árnesbyggð.

**MARZ 1968**

1. Magnús Bjarnason, póstmeistari, í Churchbridge, Sask. Fæddur þar 9. maí 1892. Foreldrar: Eiríkur Bjarnason, úr Austur-Skaftafellssýslu, og Oddný Magnúsdóttir, yfirsetukona úr Vestmannaeyjum, er fluttu til Canada um 1890.

3. Elízabeth Guðrún Lundberg, ekkja Alfreds Lundberg, í Winnipeg, 51 árs að aldri. Fædd að Hecla, Man., dóttir Jóns Guðjónssonar og Guðrúnar konu hans.

5. Jóhann (Jakobsson) Lindal, bóndi, að Sylvan, Man., 57 ára að aldri. Átti heima í Sylvan ævilangt.

10. Ásmundur Benson, héraðsdómari, á sjúkrahúsi í Bottineau, N. Dak. Fæddur að Akra, í Pembina héraði, N. Dak., 28. júlí 1885. Foreldrar: Þórður Benediktsson, frá Dalhúsum í Eiðaþingá, S. Múlasýslu, og María Sveinsdóttir frá Bæjarstæði á Seyðisfirði.

16. Margrét Hanesson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 95 ára að aldri. Fædd á Íslandi, flutti til Canada 1905, og átti heima í Árborg fram á síðustu ár.

16. Paul Roy Sigurdson, í Winnipeg, 33 ára gamall. Foreldrar: Samuel Sigurdson og kona hans, bæði látin.

17. Kristbjörg Thorey Peterson, ekkja Jóhanns Peterson, í Selkirk, Man., 73 ára að aldri. Fædd í Árnesbyggð, en hafði átt heima í Selkirk síðan 1919.

18. Halldóra Thompson, að Gimli, Man., 81 árs að aldri. Ættuð frá Ásbjarnarstöðum í Stafholtstungum í Mýrasýslu. Foreldrar: Böðvar Jónsson og Alfífa Halldórsdóttir.

21. Tryggvi Hannesson, í Winnipeg, 76 ára gamall. Fæddur í Churchbridge, Sask., en fluttist ungur til Manitoba.

22. Baldwin Sigurdson, í Kelowna, B.C., 49 ára að aldri.

22. Hallgrímur Berg Grímson, frá Mountain, N. Dak., í Seattle, Wash. Fæddur 31. okt. 1880 á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu. Foreldrar: Daníel Grímsson og Sigríður Þorsteinsdóttir, bæði ættuð úr Borgarfirði syðra, og fluttist hann með þeim vestur um haf til N. Dakota 1885.

**APRÍL 1968**

4. Carl Tryggvi Jónsson, í Winnipeg, 49 ára gamall. Fæddur að Cypress River, Man., en átti heima í Winnipeg síðan 1945.

5. Severt W. Thurston (Sigurður Þorsteinsson), aðalstofnandi og eigandi Western International Hotels félagsins, í

Seattle, Wash., hálfníræður að aldri. Fluttist frá Íslandi til Vesturheims 4 ára gamall, en búsettur í Seattle síðan 1904.

6. Oddur H. Oddson, að Lundar, Man.

7. Violet Sigurlín Johnson, í Winnipeg, 36 ára gömul. Fædd að Árnes, Man., en átti heima í Winnipeg síðan 1949.

7. Jóhannes Kernested, frá Narrows, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur við Narrows 27. sept. 1895. Foreldrar: Páll og Guðný Kernested, sem numið höfðu land við Narrows um 1893.

10. Sigmundur Oscar Sigurdson, af slysförum, í Churchill, Man., 55 ára að aldri. Fæddur í Árborg, en flutti til Churchill 1932.

13. Jóhann Sigurbjörnsson, landnámsmaður og bóndi við Leslie, Sask., á eliheimili í Wynyard, Sask. Fæddur 22. apríl 1875 að Skógum í Vopnafirði. Foreldrar: Sigurbjörn Sigurðsson og Guðrún Björnsdóttir. Fluttist vestur um haf tii Winnipeg 1903, en til Leslie 1908.

14. Captain William Stevens, að Grand Marais, Man., 75 ára að aldri. Fæddur að Gimli, Man., sonur Jóns Stevens kapteins og konu hans.

14. Kristín Swanson, ekkja Jóns J. Swanson fasteignasala, í Winnipeg, 84 ára gömul.

16. Hall (Hallur) Benson, á sjúkrahúsi í Ivanhoe, Minn. Fæddur í Jökuldal í N. Múlasýslu 15. nóv. 1869. Foreldrar: Björn Hallsson og kona hans, er komu af Íslandi til Vesturheims 1878.

19. Freda Henry, ekkja Peter Alexander Henry, í Winnipeg, 57 ára gömul. Fædd á Íslandi, en flutti til Noregs ung að aldri og kom til Winnipeg 1929.

21. Guðbjörg J. Erickson, ekkja Þorleifs Erickson, í Winnipeg, 86 ára að aldri. Fluttist til Canada 1905, átti um skeið heima í Mikley, en síðustu 20 árin í Winnipeg.

29. Kristín Holm, ekkja Brynjólfs Eiríkssonar Holm, á elliheimilinu „Betel", Gimli, Man., 92 ára gömul. Ættuð úr Húnavatnssýslu, átti heima í Winnipeg í 60 ár, en síðustu 10 árin að Gimli.

## MAÍ 1968

1. Guðrún Thorkelson, að Árnes, Man., 81 árs að aldri. Fædd í Selkirk, Man. Foreldrar: Jón Thorkelson og kona hans.

3. Valdimar Johnson, á sjúkrahúsi í Wadena, Sask. Fæddur í Suður-Þingeyjarsýslu 14. maí 1874, en fluttist til Canada 19 ára gamall. Nam land í Vatnabyggðum (Wynyard, Sask.) 1905, fluttist þangað árið eftir og bjó þar ævilangt.

3. Jóhann Guðfinnur Bjarnason, í Riverton, Man., 76 ára að aldri. Fæddur þar í bæ og átti þar heima alla sína ævi.

4. Sigríður Anderson, hjúkrunarkona, frá Winnipeg, í Moorhead, Minnesota, 59 ára gömul. Fædd í Wynyard, Sask.

14. Sigurveig Árnason, ekkja Jóns Árnason, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man.,94 ára að aldri. Fædd á Seyðisfirði, átti fyrrum heima í Churchbridge, Sask, en síðar í Winnipeg.

12. Donald Harvey Sölvason, í Woodlands, Man., 18 ára gamall. Foreldrar: Ármann Sölvason og kona hans.

15. Margrét Stephensen, ekkja Ólafs Stephensen læknis, í Winnipeg. Fædd að Árnes, Man., 28 ágúst 1878. Foreldrar: Stefán Gunnarsson og Anna Þuríður Sigfúsdóttir, er fluttist af Austurlandi vestur um haf til Nýja Íslands 1876, en til Winnipeg 1882. Átti hún þar heima jafnan síðan.

16. Sigríður Bjarnason, ekkja Péturs Bjarnasonar í Mikley, Man., á Gimli, Man., 97 ára að aldri. Fjölskyldan flutti frá Íslandi til Mikleyjar 1914.

17. Ása Johnson, kona Fred G. Johnson, að Garðar, N. Dak., á sjúkrahúsi í Winnipeg, 77 ára gömul. Fædd að Hnausa, Man. Foreldrar: Jóhannes Gíslason og kona hans, en ólst upp hjá Birni og Margréti Skaptason.

19. Snybjörn P. Thorsteinson, að Lundar, Man. Fæddur á Íslandi 5. maí 1890. Bóndi í Lundarhéraði um langt skeið fram til 1966.

19. Guðrún Sólmundson, fyrrv. símastöðvarstjóri á Gimli, að elliheimilinu „Betel" þar í bæ, 71 árs að aldri. Fædd að Gimli og átti þar heima ævilangt. Foreldrar: Séra Jóhann Sólmundsson og Guðrún kona hans.

23. Sigurgeir Stefánson, kaupmaður, að Hnausa, Man. Fæddur þar 25. des. 1895. Foreldrar: Stefán Guðnason og Jóhanna Hannesdóttir, er bjuggu að Skálum í Vopnafirði.

30. Sigríður Björnsson, ekkja Guðmundar Björnsson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fædd að Hornbrekku í Ólafsfirði 8. ágúst 1885. Foreldrar: Páll Halldórsson og Jóhanna Guðrún Jónsdóttir, og fluttist hún með þeim vestur um haf til Nýja Íslands 1894. Átti lengst af heima að Geysir og Riverton, Man.

Í þeim mánuði — Steinn Conrad Ólafson, í Fort Garry, Man., 45 ára gamall.

JÚNÍ 1968

1. Unnur Sigurlaug Josepson, kona Hjartar J. Josepson, í Winnipeg 62 ára. Fædd í Markland héraði í Manitoba, en þau hjón höfðu átt heima í Otto og Lundar, Man., þar til þau fluttu til Winnipeg 1947.

3. Helga Elíason, kona Jens Elíassonar, í St. Vital, Man., 73 ára að aldri. Systir séra Jóhanns Friðrikssonar og þeirra systkina.

8. Ólafur Bjarnason, trésmíðameistari, í Seattle, Wash. Fæddur að Arnarstapa í Álftaneshreppi í Mýrasýslu 22. nóv. 1878. Foreldrar: Bjarni Sigurðsson og Margrét kona hans. Flutti vestur um haf til Winnipeg 1901, en til Seattle 1924.

16. Emily Thorarinson, Kona S. Aleck Thorarinson, lögfræðings, í Winnipeg, 42 ára gömul. Foreldrar: Thorsteinn A. Ísleifson og kona hans í Winnipeg.

16. Fjóla Paulson, kona Páls Hjaltalín Paulson, í Mikley, Man., 57 ára að aldri. Fædd þar, dóttir Ólafs Helgasonar og Kristínar konu hans.

17. Oscar Franklin Eyjólfson, að Lundar, Man. Fæddur að Akra, N. Dak., 13. apríl 1897. Foreldrar: Jón Eyjólfsson og Guðrún Guðmundsdóttir, bæði ættuð úr Suður-Múlasýslu. Fluttist barnungur til Manitoba.

18. Benedikt Björnsson Heiðman, í Winnipeg. Fæddur að Ármótaseli í Jökuldalsheiði 4. maí 1893. Foreldrar: Björn Sigurðsson Heiðman og Guðrún Valgerður Hallgrímsdóttir. Kom með þeim vestur um haf til Argyle, Man., 1903, og átti þar heima þangað til hann flutti til Winnipeg 1947.

19. Magnús Gunnlaugson, í Winnipeg, 79 ára að aldri. Fæddur í Argylebyggð, og búsettur þar, þangað til hann flutti til Winnipeg fyrir 26 árum.

25. Douglas Clifford Albertson, frá Húsavík, Man., á sjúkrahúsi að Gimli, 43 ára gamall. Fæddur í Selkirk, Man. Foreldrar: Stefán Albertson og kona hans í Húsavík.

25. Edith (Auður) Kilcup, í Winnipeg, 64 ára að aldri. Foreldrar: Stefán og Guðbjörg Byron, fyrrum að Vestfold, Man.

JÚLÍ 1968

2. Ronald Sigfús Einarsson, drukknaði við Hay River, North West Territories, 37 ára gamall. Foreldrar: Gunnar S. Einarsson og kona hans í Árborg, Man.

2. Guðrún Brynjólfson, kona Ólafs Brynjólfson, í Winnipeg, 79 ára gömul. Fædd á Akureyri, en kom til Winnipeg 1914.

2. Rebecca Katherine Speakman, kona Josephs Speakman, í Vancouver, B.C. Dóttir Guðmundar Jónssonar, kaupmanns, er fyrr á árum rak fatasölubúð í Winnipeg.

3. Helga Erlendson Klein, kona Alfreds Klein, í Dauphin, Man. Fædd að Amaranth, Man., 6. febr. 1898. Átti lengstum heima í Lonely Lake, Man.

4. Valgerður Coghill, ekkja Ola Coghill, á sjúkrahúsi í Winnipeg, áttræð að aldri. Fædd ( Riverton, Man. Foreldrar: Frumherjahjónin Jóhann og Guðrún Briem; átti heima í Íslendingafljótsbyggðinni mestan hluta ævinnar.

5. Hólmfred (Fred) Ingjaldson, frá Winnipeg, í Kenora, Ont.

7. Leonard Thorkell Jacobson, af slysförum, 41 árs gamall. Foreldrar: Jacob (látinn) Jacobson og Þórunn kona hans, að Gimli, Man.

7. Thorarinn Thorkelson, í Chicago, Ill., 75 ára að aldri. Fæddur á Íslandi en flutti til Canada um aldamótin, átti framan af árum heima í Manitoba, en í Chicago síðastliðin 45 ár.

12. Jóhannes (Joe) Johnson, að Árborg, Man., 66 ára gamall.

13. George Alan Kardal, frá Riverton, Man., af slysförum, 34 ára að aldri.

14. Signý Guðrún (Sigurdson) Larry, í Winnipeg, 77 ára gömul. Fædd og alin upp í Riverton, Man.

16. Sigurlaug Anna Ásmundson, ekkja Ágústs Ásmundsonar, í Red Deer, Alberta. Fædd 6. jan. 1880 að Garði í Gullbringusýslu. Foreldrar: Jón Helgason og Anna Sveinsdóttir. Kom af Íslandi til Canada aldamótaárið, og átti lengstum heima í Red Deer.

16. John Hallgeir Axdal, gistihússtjóri og fyrrv. héraðsféhirðir, í Cavalier, N. Dak. Fæddur 22. marz 1887 að Öxará í S. Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Sigurjón Jónsson og Guðrún Aðalbjörg Jóhannesdóttir. Fluttist með foreldrum sínum vestur um haf 1889.

17. Wayne (Dick) Davíðson, í Winnipeg, 34 ára gamall. Foreldrar: Charles V. Davíðson og kona hans í Winnipeg.

19. Hallgrímur S. Axdal (albróðir J. H. Axdal), fyrrum símstjóri og hveitikaupmaður í Wynyard, Sask., í Winnipeg. Fluttist með foreldum sínum til Vesturheims 1889.

20. Séra Björn Jóhannson, í Urbana, Ohio. Fæddur í Pembina, N. Dakota, 29. okt. 1892. Foreldrar: Jóhann Jóhannson og Rósbjörg Jónsdóttir, er fluttu af Íslandi til N. Dakota 1883, og bjuggu lengst

af í Akrabyggð. Prestur Swedenborgar safnaða (1928-1963) í Kaupmannahöfn og víðsvegar í Bandaríkjunum.

20. Jón Th. Johnson, á sjúkrahúsi í Burnaby, B.C., 88 ára að aldri. Fæddur á Gimli, Man. Foreldrar: Thorsteinn Johnson og kona hans Guðrún Bjarnadóttir í Argyle, Man.

22. Áslaug Sigfússon, ekkja Svanbergs Sigfússon, í Riverton, Man., áttræð að aldri. Fædd að Sandy Bar, lengstum búsett í Geysisbyggð, Man.

23. Jónína Ingibjörg Jörundsson, kona Sigtryggs Jörundsson, í Winnipeg, 67 ára.

25. John Wilmar Steinthorson, af slysförum, í Kapuskasing, Ont., 42 ára gamall. Fæddur að Vogar, Man. Foreldrar: John Steinthorson, ættaður úr Árnessýslu, og kona hans Ingunn (Johnson), af austfirzkum ættum, að Lundar, Man.

25. Helgi Jakobson, bóndi, í grennd við Árborg, Man. Fddur þar 1. apríl 1905. Foreldrar: Helgi Jakobsson og kona hans, Ingibjörg Böðvarsdóttir, bæði löngu látin.

28. Þuríður Gíslason, kona Gísla Gíslasonar, í Riverton, Man. Fædd 4. des 1903 í Fljótsbyggðinni ( Nýja Íslandi. Foreldrar: Jóhannes Helgason, ættaður úr Mýrasýslu, og fyrri kona hans, Jónína G. Jóhannesdóttir, úr Borgarfirði eystra.

31. Sigurður (Siggi) Byron, af slysförum, að Lundar, Man., 44 ára. Foreldrar: Kári Byron og kona hans að Lundar.

31. Laufey Svafa Helgason, ekkja Victors Helgason, í Winnipeg, 73 ára að aldri. Búsett þar í borg síðastliðin 56 ár.

Í þeim mánuði — Gordon Reginald Sigurdson, í Vancouver, B.C., 39 ára. Foreldrar: John Sigurdson og kona hans þar í borg.

**ÁGÚST 1968**

1. Sigurlaug Margrét Nordal, kona Bjarna Nordal, að Lundar, Man., 68 ára gömul.

3. Margrét (Magga) Halldórsson, að Gimli, Man. Fædd þar 1897, og átti þar heima ævilangt.

5. Bergljót Johnson, á sjúkrahúsi í Árborg, Man. Fædd á Íslandi 4. nóv. 1877. Foreldrar: Eiríkur Jónsson og Vilborg Stefánsdóttir, bæði ættuð af Austurlandi. Átti heima í Árborg og nágrenni síðan 1901.

10. Rögnvaldur Franklin Pétursson, verkfræðingur, frá Edmonton, Alberta, í Willowdale, Ont. Fæddur í Kristnes, Sask., 16. apríl 1906. Foreldrar: Ólafur fasteignasali Pétursson og Anna kona hans.

12. Donald Kristjón Finnson, búfræðingur, af slysförum, í Parkdale, Man., 28 ára gamall. Foreldrar: Sigfús Finnson og kona hans.

15. Oscar John Gottfred, í Winnipeg, 75 ára að aldri.

16. Ingveldur Henry, ekkja Jóns Hendry, í Petersfield, Man., 92 ára gömul. Fædd á Íslandi, en kom til Canada 1886, búsett í Petersfield síðustu 65 árin.

24. Gestur Sigurður Oddleifson, í Winnipeg, 73 ára að aldri. Fæddur að Geysir í Nýja Íslandi, sonur landnámshjónanna Gests Oddleifssonar og konu hans, og átti lengst af heima í Árborg, Man.

25. Ólafur Hrafnkell Olson, í Winnipeg, 67 ára. Fæddur í Selkirk, Man., sonur Arnljóts Olson og konu hans.

30. Sigurlaug Jakobína Jóhannson, ekkja Guðmundar Jóhannson, í Winnipeg. Fædd á Íslandi 1874 og fluttist til Canada 15 ára gömul.

**SEPTEMBER 1968**

2. Alice Halldórsson, kona Daníels Halldórsson, í Brandon, Man., af slysförum, í MacGregor, Man. Fyrrum að Sandy Hook, Man.

3. Sveinbjörn Anton Sigurdson, í W. Kildonan, Winnipeg, 66 ára. Átti heima þar í borg ævilangt.

5. Guðný Johnson, ekkja Halldórs Johnson, í Winnipeg, 89 ára gömul. Átti framan af árum heima í Cypress River, Man.

10. Gunnar Einar Sigurdson, að Víðir, Man., 58 ára. Fæddur að Morden, Man., en lengst af bóndi í Víðir.

10. Ottó Björnson, í Winnipeg, 62 ára að aldri. Ættaður frá Baldur, Man., en búsettur í Winnipeg síðustu 45 árin.

12. Sigursteinn Lárusson, í Winnipeg. Fæddur að Gimli, Man., 1. jan. 1898. Foreldrar: Landnámshjónin Pálmi Lárusson, Húnvetningur að ætt, og kona hans Guðrún Steinsdóttir, af skagfirzkum ættum.

13. Björn Jóhannson Hansen, á sjúkrahúsi í Ottawa, 82 ára að aldri.

15. Guðrún Björg Guttormsdóttir Vigfússon, ekkja Þorsteins Vigfússonar, á sjúkraheimili í Seattle, Wash., 87 ára gömul. Fluttist til Canada aldamótaárið, en átti lengstum heima í Des Moines, Wash.

21. Guðrún Stevens, kona Helga Stevens, að Gimli, Man., 68 ára að aldri. Fædd á Íslandi, en fluttist til Gimli 1913.

22. Joe Hernes Breidford, af slysförum, í Blaine, Wash. Fæddur 20. sept. 1902. Foreldrar: John J. Breidford og Kristjana Ottesen, kona hans.

28. Karl Ólafur Einarsson, fyrrv. sveitarráðs og bæjarráðsmaður, í Árborg, Man. Fæddur á Gimli, Man., 23. júlí 1898, sonur Friðfinns og Jakobínu Einarsson, er bjuggu þar í nágrenninu.

**OKTÓBER 1968**

3. Gunnþórunn Albertína Gunnlaugsson, ekkja Hannesar G. Gunnlaugssonar, í Winnipeg, 94 ára að aldri. Fædd á Íslandi, en flutti til Canada 1905, og átti lengst af heima við Narrows, Man.

7. Paul Henry Clemes, í Fort Garry, Man., 62 ára gamall. Fæddur í Winnipeg og átti þar heima alla ævi.

13. Henry Thompson, byggingameistari, á sjúkrahúsi í Selkirk, Man., 86 ára að aldri. Fæddur á Akureyri, en flutti til Canada barnungur.

14. Stefanía Valgerður (Lella) Eydal, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 74 ára gömul. Ættuð úr Eyjafirði og kom vestur um haf með fósturmóður sinni, Helgu Vigfúsdóttur, 1905. Átti lengst af heima í Winnipeg.

15. Harold (Dori) Gíslason, í Winnipeg, fertugur að aldri.

17. Inga Caverly, í Winnipeg. Fædd að Westbourne, Man., en búsett í Winnipeg mestan hluta ævinnar.

24. Gunnar Rafn Grímson, vélstjóri, í St. James, Winnipeg, 71 árs að aldri. Fæddur að Garðar, N. Dak., en fluttist til Canada 1909, og átti lengi heima í St. James.

24. August Freman Stephanson, í Selkirk, Man., 62 ára að aldri. Fæddur þar og átti þar heima ævilangt.

25. Konrad Jóhannesson, kunnur flugmaður og hockey-leikari, í West St. Paul, Minn. Fæddur í Glenboro, Man., 10. ágúst 1896. Foreldrar: Jóhannes Jóhannesson, Mývetningur að ætt, og Rósa Einarsdóttir, frá Húsavík, er fluttu vestur um haf til Winnipeg 1887.

30. Paul Ólafson Einarson, í Winnipeg, sextugur að aldri. Fæddur á Patreksfirði, en flutti til Canada 19 ára gamall.

**NÓVEMBER 1968**

8. Theodore Thordarson, trésmiður, í Vancouver, B.C. Fæddur í Njarðvík í Gullbringusýslu 1. des. 1890. Foreldrar: Þórður T. Þórðarson og Arnfríður Magnúsdóttir, og kom með þeim vestur um haf til Gimli um aldamótin.

9. Sigurður Thorkelson, 78 ára að aldri. Fæddur að Hnausa, Man., en bóndi í Árnesbyggð lengstum ævinnar.

10. Sveinn Sveinson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 73 ára að aldri. Fæddur á Íslandi, en fluttist ungur vestur um haf með foreldrum hínum, Eyjólfi Sveinssyni og Jónu Guðmundsdóttur. Átti framan af árum heima að Oakview, Man.

11. Valdimar Rafn Johnson, í Winnipeg, áttræður. Fæddur að Howardville, Man., en átti fyrrum heima að Gimli.

12. Joseph Ellers Joel Thorsteinson, í Ottawa, fyrrum búsettur í Winnipeg.

16. Tryggvi Athelstan (Gunnlaugur Tryggvi Aðalsteinsson), meindýraeyðir, í Minneapolis. Fæddur á Akureyri 13. okt. 1888. Foreldrar: Aðalsteinn Friðbjarnarson, bókbindari, og Anna Karólína Guðmundsdóttir. Fluttist til Canada 1910, og átti heima í Winnipeg til 1918, því næst 6 ár í Elfros, Sask., en eftir það í Minneapolis.

21. Friðjón Armond (John) Sigurdson, 82 ára gamall. Fæddur að Árnes, Man., og átti heima þar og á Gimli ævilangt.

22. Christian Bergsveinson, á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask. Fæddur á Íslandi 7. ágúst 1884. Fluttist til Winnipeg 1888, en til Wynyard 1906.

24. Albert F. Arnason, fyrrv. fræðslumálastjóri æðri skóla í N. Dakota, í Grand Forks, N. Dak. Fæddur 1908 í grennd við Hensel, N. Dak. Foreldrar: Landnámshjónin Árni Árnason, frá Hámundarstöðum í Vopnafirði, og Guðrún Baldvinsdóttir, úr Sléttuhlíð.

27. Louis Esther Madsen, í Fargo, N. Dak. Fædd í Upham, N. Dak., 18. apríl 1909. Foreldrar: Landnámshjónin Guðmundur og Guðbjörg Freeman.

30. Kristinn Oliver, í Winnipeg, 79 ára að aldri. Fæddur í Reykjavík, en átti heima í Canada síðan 1909.

30. Nýbjörg Snidal, ekkja Jóhanns Einars Snidal, frá Oak Point, Man., á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fædd að Mountain, N. Dak., 20. febrúar 1893, en fluttist snemma á árum til Manitoba með foreldrum sínum.

**DESEMBER 1968**

3. Martin Lyle Johnson, í East Kildonan, Winnipeg, 34 ára gamall. Fæddur í Winnipeg, en alinn upp í Amaranth, Man.,þar sem foreldrar hans, K. Johnson og kona hans, eiga heima.

4. Benedikt W. Benson, í Selkirk, Man., 81 árs að aldri. Fæddur á Íslandi, en fluttist til Canada 1903 og átti lengst af heima í Mikley, Man.

6. Pauline Einarsson, ekkja Guðmundar Einarsson, 72 ára gömul. Átti lengst af heima á Gimli, en síaðn 1945 í Winnipeg.

8. Jónína Finnson, kona Kristjóns Finnson, að Víðir, Man., á Gimli, Man. Ættuð úr Húnavatnssýslu, en fluttist með foreldrum sínum vestur um haf um aldamótin, fyrst til Selkirk og síðan til Víðir 1909.

9. Veronica Louisa Saedal, kona Roberts Saedal, í Winnipeg.

10. Dr. Árni Helgason, rafmagnsverkfræðingur og aðalræðismaður Íslands, í Chicago. Fæddur í Hafnarfirði 16. marz 1891. Foreldrar: Helgi Sigurðsson og kona hans Sigríður Jónsdóttir. Flutti vestur um haf til Manitoba 1912, átti síðan heima í N. Dakota um allmörg ár, en í Chicago frá 1925.

17. Kristján Ólafsson, að elliheimilinu „Betel“, Gimli, Man., 86 ára að aldri. Fæddur í Riverton, og átti þar heima nema nokkur síðustu árin.

17. Thorleifur Stefán Hanson, húsasmiður, í Winnipeg, 85 ára gamall. Fluttist vestur um haf 1910, búsettur í Winnipeg síðan 1922.

18. Steinunn Thorarinson, af slysförum, í Winnipeg, 81 árs gömul. Fædd við Íslendingafljót, dóttir landnámshjónanna Thorvaldar Thorarinssonar og konu hans.

18. Halldór Freeman, fyrrum til heimilis í Charleswood, Man., í Vernon, B.C.

20. Bjarni Sigvaldason, 84 ára, er lengst af var bóndi í Geysisbyggð í Manitoba.

20. Guðmundur Kjartan Thordarson, smiður, í Winnipeg, 64 ára gamall. Fæddur á Íslandi, en átti heima í Winnipeg mestan hluta ævinnar.

22. Sigþóra Tómasson, ekkja Kristjáns Tómasson, á Reynistað í Mikley, Man., 76 ára að aldri. Ættuð úr Vopnafirði, en fluttist vestur um haf með föður sínum, Þorláki Jónssyni, árið 1905.

22. Margrét Dagbjört Kristjánson, í Winnipeg, 91 árs að aldri. Fædd á Íslandi, en fluttist til Canada 1895, átti lengi heima í Otto og að Lundar, Man., en í Winnipeg síðan 1951.

24. Miss Lauga Geir, skáldkona og fyrrv. kennari, í Garðarbyggð í N. Dakota. Fædd í grennd við Mountain, N. Dak., 13. apríl 1888. Foreldrar: Jóhann Geir Jóhannesson frá Snorrastöðum í Hnappadalssýslu, landnámsmaður í Eyfordbyggð, og kona hans Anna Kristín Jónsdóttir.

25. Grace Theodora Bachman, kona Skúla M. Bachman, í Winnipeg, 75 ára að aldri. Fædd að Gimli, dóttir Jóhannesar og Jónínu Hannesson, en lengst af áttu heima í Winnipeg.

25. Guðrún Christie, kona John Christie, í Winnipeg. Fædd í Vestfold, Man., 1898, en hafði átt heima í Winnipeg síðan 1921.

# Fertugasta og níunda þjóðræknisþing

**Ræða forseta Þjóðræknisfélagsins, séra Philips M. Péturssonar á hinu fertugasta og níunda ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

Kæru tilheyrendur, háttvirtir fulltrúar og gestir:

Ég vil hefja mál mitt með því að bjóða alla velkomna á þetta þing og láta í ljósi þá ósk, að þingstörfin verði sem heilladrýgst.

Er vér lítum til baka yfir liðið ár, sjáum vér, að það hefir verið með viðburðaríkustu árum í vorri sögu bæði innan félags og utan. Af þessu má dæma, að félag vort lifir ennþá góðu lífi og er ennþá að færa út kvíarnar. Hið liðna ár var og merkisáfangi í sögu þeirrar þjóðar, sem flest okkar eru hluti af eða hið hundraðasta í sögu kanadíska fylkjasambandsins, sem varð eins konar grundvallarsamband kanadísku þjóðarinnar eins og hún er nú. Víða í Kanada var efnt til hátíðahalds í tilefni afmælisins, og tóku Íslendingar þar sinn þátt í málum, en bronsskjöldur sá í minningu um Ameríkufund Bjarna Herjólfssonar og Leifs heppna, sem lýst var í síðasta hefti tímarits vors og afhjúpaður var af forsætisráherra Kanada, herra Lester B. Pearson, í Ottawa þann 14. apríl 1967, verður að teljast sérframlag Kanadamanna af íslenzkum ættum til hátíðahaldsins. Eins og rækilega var frá sagt í blöðum á sínum tíma, var fjöldi fólks viðstaddur afhjúpunarathöfnina í Ottawa fyrrgreindan dag.

Heimssýningin í Montreal, Expo '67, var í rauninni meginhluti fyrrgreindrar afmælishátíðar. Ísland átti þar sína deild með ö ð r u m skandinavískum þjóðum. Við hjónin áttum þess kost að fara á sýninguna. Höfðum við mikla ánægju af þeirri ferð, enda hittum við þar Íslendinga, sem við höfðum ekki séð í fjölda mörg ár. Þá kynntumst við og starfsfólki íslenzkudeildarinnar á Heimssýningunni, þeim G u n n a r i Friðrikssyni forstjóra deildarinnar, Elínu Pálmadóttur fréttaritara Morgunblaðsins, Pétri Karlssyni og Þórdísi Árnadóttur.

Annar merkisviðburður hins liðna árs var heimsókn forseta Íslands, herra Ásgeirs Ásgeirssonar, til W i n n i p e g og Gimli. Hann hafði áður komið til Gimli, en þetta var í fyrsta sinn, sem hann ávarpaði Íslendinga á Íslendingadagshátíð, enda heiðraði fjöldi manna forsetann með því að sækja hátíðina og hlýða ræðu hans. Í fylgd með forsetanum voru Emil Jónsson utanríkisráðherra, Pétur Thorsteinsson sendiherra, Vilhjálmur Þór varabankastjóri hjá Alþjóðabankanum í Washington og kona hans, frú Rannveig Þór, Þorleifur Thorlacius forsetaritari og frú hans, Jón P. Sigvaldason sendiherra Kanada í Noregi og á Íslandi og frú. Koma forsetans og fylgdarliðs hans mun lengi í minnum höfð. Þar bar til nýlundu, að menntamálaráðherra Manitóbafylkis, dr. George Johnson bauð forsetanum og nokkrum hluta fylgdarliðs hans í flugferð um Nýja Ísland og út til Mikleyjar. Í Winnipeg var forsetinn gestur fylkisstjórans. Á Gimli dvaldist hann í íbúð, sem sambandsstjórnin í Ottawa hafði látið í té.

Á Manitóbaháskóla lýsti forseti Íslands yfir því, að deild Guttorms J. Guttormssonar í Háskólasafninu væri nú formlega tekin í n o t k u n notendum safnsins til hagræðis og fróðleiks. Veizlur voru haldnar til heiðurs forseta Íslands af fylkisstjórn Manitóbafylkis, Frímúrarareglunni í Winnipeg og Þjóðræknisfélaginu. Allir þeir, sem studdu að því, að heimsókn forsetans færi eins vel fram og raun bar vitni, eiga þakkir vorar skilið.

Um lok júnímánaðar e f n d i stjórn Þjóðræknisfélagsins til samsætis fyrir dr. Richard Beck og konu hans, frú Margréti Beck, en þau hjón voru þá í þann veginn að flytja alfarin frá Grand Forks til Victoria, B.C. S a m s æ t i þetta var dálítill þakklætisvottur til þeirra hjóna fyrir margháttuð og frábær störf þeirra í þágu þjóðræknismála vorra. Það er mér mikið gleðiefni að sjá, að þau hjónin hafa séð sér fært að sækja þing vort nú í ár. Rétt áður en þau hjónin fluttust frá Grand Forks síðast liðið ár, sóttu þau ársþing félags til eflingar norrænum fræðum, sem haldið var við Háskólann í Indiana í Bloomington, en þar flutti dr. Beck erindi um **Heimþrá í ljóðum vestur-íslenzkra skálda**. Um sömu mundir flutti dr. Beck erindi um Í s l a n d á fundi Kiwanis klúbbsins í Grand Forks. Þau hjónin, dr. Beck og frú Margrét fluttu skemmtiskrá um Norðurlönd á lýðveldishátíð deildarinnar Báran að Mountain, N. D. og einnig á ársfundi The Icelandic Canadian Club í Winnipeg. Auk þess flutti dr. Beck ávarp og frumort kvæði á Íslendingadeginum í Blaine, Washington.

Ekki mun mér gefast tóm til að gefa hér nákvæma skýrslu um öll störf einstakra meðlima stjórnarnefndar Þjóð-

ræknisfélagsins. Fyrst skal þó getið starfa þeirra frú Hólmfríðar Daníelson ritara Þjóðræknisfélagsins og frú Kristínar Johnson varafjármálaritara, en þær stóðu fyrir margþættri kynningarsamkomu, sem haldin var á vegum Bókasafnsnefndar Fort Garry hverfisins hér í bæ. Voru þar fluttar ræður, söngvar sungnir og dansar stignir. Auk þess komu þar fram konur í íslenzkum þjóðbúningum. Einn þáttur kynningarinnar var sýning hannyrða. Nokkuð af þessum atriðum var svo endurtekið á samkomu að Gimli undir umsjón sömu kvenna. Frú Hólmfríður Daníelson hefir flutt erindi um Ísland, leiðbeint fjölmörgu fólki hjá ýmsum héruðum í Kanada um íslenzk menningarmál. Þá hefir frúin og annazt íslenzkukennslu og kennt ungmennum, sem hafa sótt hana heim til reglubundinnar uppfræðslu.

Á árinu hefir stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins haldið sjö fundi og a. m. k. fimm aukafundi. Eftir því sem ég bezt veit, hefir nefndin reynt að sinna öllum þeim málum, sem vísað var til hennar á þinginu í fyrra. Eitt þeirra mála var tillaga þess efnis, að nefndin rannsakaði möguleika á því að efna til hópferðar héðan frá Winnipeg til Íslands á sumri komanda. Þetta mál hefir verið ítarlega rannsakað með þeim árangri, að hópferðin er ráðin, eitt hundrað sæti seld á $285.00 hvert, en það er mjög sanngjarnt verð, og þrjátíu manns á biðlista. Er nú verið að rannsaka möguleikana á því að fá fimmtíu viðbótarsæti.

Búið er að ganga frá afhendingu brjóstmyndar af Vilhjálmi Stefánssyni, en þeirri mynd hefir áður verið lýst í Tímariti Þjóðræknisfélagsins. Á morgun fer fram athöfn í sambandi við afhendinguna í þinghúsi Manióbafylkis undir stjórn, dr. George Johnson menntamálaráðherra, sem mun veita myndinni viðtöku fyrir hönd fylkisstjórnar Manitóba. Að því búnu fer fram önnur athöfn í Centennial Centre í Winnipeg, þar sem brjóstmyndinni verður fenginn samastaður. Vænti ég þess, að sem flestir sjái sér fært að sækja báðar samkomurnar.

Áður en ég lýk máli mínu, vil ég minna á tvö afmæli, sem fram undan eru og varða félag vort. Árið 1970 verður minnzt hundrað ára afmælis Manitóbafylkis, en næsta ár verður Þjóðræknisfélagið fimmtugt. Tel ég rétt, að þinggestir gefi því nokkurn gaum, hvernig helzt megi minnast þessara atburða með virðulegum og viðeigandi hætti.

Ég vík nú að öðrum málum, og er ég geri það vil ég leyfa mér að lesa örfá orð úr fimmta bindi **Sögu Íslendinga í Vesturheimi** eftir Tryggva heitinn Óleson, og sem kom út árið 1953.

Þar er sagt, í byrjun hins tíunda kafla, þar sem rætt er um upptök Þjóðræknisfélagsins:

„Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi var stofnað á fundi er haldinn var í Winnipeg 25-27. marz, 1919, en átti sér nokkurn aðdraganda, enda var hugmyndin ekki ný, eins og þegar hefur verið getið í fyrri bindum þessa ritverks. Fyrsta sporið að myndun þess félagsskapar mun hafa verið stigið 10. janúar, 1917. . . .“

Sagt er að þessi fundur hafi farið fram að heimili Árna Eggertssonar og var Árni kosinn forseti. Friðrik Swanson var kosinn skrifari. Aðrir á fundinum voru J. J. Bíldfell, séra Runólfur Marteinsson, séra B. B. Jónsson, Sigurður Júlíus Jóhannesson, séra Friðrik J. Bergman, Jóhannes Sigurðsson, Gísli Jónsson og fleiri. Fimmtán manna nefnd var kosin til að undirbúa stofnun íslenzks félags og að kalla annan fund.

„Rúmu ári seinna eða 2. apríl, 1918 skrifar Sigurður Júlíus Jóhannesson ritstjóragrein og hvetur Íslendinga til þess að stofna alsherjar Íslendingafélag, er taki yfir alla Ameríku. Um haustið er svo boðaður fundur í samkomuhúsi Skjaldborgar safnaðar 30. september, og segir séra Rögnvaldur Pétursson að forgöngumen hafi verið Sigurbjörn prentari Sigurjónsson, Þórður gullsmiður Jónsson og Sigurður Júlíus Jóhannesson.“ Séra Runólfur Marteinsson stjórnaði fundinum. Næsti fundur var haldinn 7. janúar 1919, og á þeim fundi var fimm manna nefnd skipuð til að útnefna „30 manna nefnd úr öllum félögum og flokkum í Winnipeg“. . . „Átti sú nefnd að leita samvinnu við Íslenzkar byggðir í Ameríku“ til að halda íslenzkri tungu og menningu við. Langt ávarp til Íslendinga birtist í báðum íslenzku blöðunum, Heimskringlu og Lögbergi, og var það undirritað af hinum 30 mönnum og konum sem í nefndinni voru.

Málinu var vel tekið í ýmsum byggðarlögum og var því boðað til stofnþings er átti að haldast 25. marz og næstu daga. Stofnþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var sett 25. marz og slitið 27. marz. Efst á stefnuskrá félagsins, þar sem tilgangur þess er tekinn fram, er sagt í (a) lið, að tilgangurinn sé, „Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.“ Þessi yfirlýsing hefir birzt á fremstu síðum Tímarits félagsins alveg frá byrjun, og birtist enn.

Hversvegna er ég að fara út í þetta mál á þessum tímum? munu sumir spyrja. Aðrir munu segja, að þetta sé gömul saga, sem allir þekkja. En svo sýnist ekki vera, því að nýlega hefur bók

komið út, sem hefur allt annað að segja um uppruna, og stofnun og tilgang félagsins, en það sem ég hefi borið hér fram, og ég finn sterka hvöt til þess að leiðrétta nokkrar meinlegar villur, missagnir og mótsagnir, sem eiga engan ómgrunn í sögu félagsins. Ég á við bókina „The Icelanders in Canada“ eftir Walter, dómara Lindal. En ég vil láta það skiljast að ég er ekki að fara hér með neinn ritdóm um bókina, heldur aðeins að benda á villur og missagnir í sambandi við kaflann um Þjóðræknisfélagið.

Þeir, sem hafa lesið bókina vita hvað er þar ritað með sjurningarmerkjum og getgátum. Það er það, sem ég verð að gera athugasemdir við.

Höfundur bókarinnar segir til dæmis, „The Icelandic National League was formed in 1919, almost immediately after the end of World War I, which was on November 11, 1918. Why so soon after the war? Why such an apparent **withdrawal** from Canadian objectives?“

Hvað er hér átt við með orðunum „withdrawal from Canadian objectives“? Í allri frásögninni um Þjóðræknisfélagið í bók Tryggva Oleson, sem nær yfir margar blaðsíður, bólar ekki á einu einasta orði, sem gæti komið manni til að halda að þar hafi verið nokkuð, sem gæti kallast „withdrawal from Canadian objectives“, í sambandi við stofnun Þjóðræknisfélagsins. En þar að auki bendir fyrsta atriðið í stefnuskrá félagsins á, að tilgangur þess sé sá, „að stuðla að því af fremsta megni, að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.“ Þetta eina atriði bendir skírt og ótvírætt á, að stefna félagsins hefur verið alveg frá byrjun þvert á móti því, sem höfundur bókarinnar heldur fram, nefnilega, „withdrawal from Canadian objectives“.

En ég vil láta það skiljast að þó að ég finni að bókinni, þá er ég ekki að gera neina persónulega árás á höfundinn. Það mun þykja þrekvirki að maður á níræðis aldri skyldi geta afrekað það, á nokkrum mánuðum að koma út 500 blaðsíðna bók.

Það væri enn merkilegra ef að alls engar villur hefðu fundist í bók, sem samin hefði verið og gefin út á jafn stuttum tíma. Ég veit ekki hvað þær geta verið margar eða meinlegar, en það eina sem vakir fyrir mér er að leiðrétta það, sem er villandi í sambandi við sögu Þjóðræknisfélagsins. Og þar sem þessi bók á að vera heimildarbók, þykir mér slæmt að annað en hið rétta og sanna skyldi birtast í henni.

Með þessari skýringu sný ég mér aftur að bókinni. Höfundurinn segir t. d. í næst síðustu setningunni í fyrsta kaflanum á bls. 296, þar sem hann ræðir um stofnun félagsins, „The old Icelandic Society of Winnipeg, formed in 1877, had ceased to function long before the turn of the century and no steps had been taken to replace it. Why the sudden outburst?“

Hvað er hér átt við? Hann sýnist enga hugmynd hafa um hve félögin hafa verið mörg sem voru stofnuð um og eftir aldamótin. Sum hurfu, en sum entust furðu lengi. Til voru lestarfélög, leikfélög, og ungmennafélög b e g g j a megin landamæralínunnar. Hér í Winnipeg voru til um mörg ár, menningarfélag, stúdentafélag, leikfélag og góðtemplarafélög, þrjú alls. Margir muna eftir félaginu „Helgi Magri“, sem enn var við góðu lífi þegar Þjóðræknisfélagið var stofnað, og endaði æviskeið sitt ekki fyrr en 1940. Til voru íþróttafélög og taflfélög, og mörg fleiri. Þetta voru öll íslenzk félög. En tími gefst ekki við þetta tækifæri til að telja þau öll upp. Það er mesta fjarstæða þess vegna, að segja, „The old Icelandic Society of 1877, has ceased to function . . . and no steps had been taken to replace it.“ Og svo að segja, í sambandi við stofnun Þjóðræknisfélagsins, „Why the sudden outburst?“

Tryggvi Oleson segir „Fyrsta sporið . . . mun hafa verið stigið 10. janúar, 1917.“ Manni verður á að spyrja, „How sudden is sudden?“ . . . Getur maður ímyndað sér að piltur biðji sér stúlku, og svo tveimur árum seinna, að hún segi, „This is so sudden!“?

En verra er eftir að koma, því rithöfundurinn r e y n i r að gera grein fyrir spurningunni, „Why so soon after the war?“ og „Why the sudden outburst?“, og segir „**There can be no doubt that part of the reason was the general disappointment in the victory of the Allied Powers.**“ En, er vér snúum okkur aftur að grundvallargreininni, sem segir að tilgangurinn sé að stuðla að því af fremsta megni, að „Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi“, þá er ómögulegt að finna nokkuð samræmi á milli hennar, og staðhæfingarinnar um „general disappintment in the victory of the Allied Powers.“ Og aftur bendi ég á, að hvergi í bók Tryggva Oleson finnst eitt orð um „general disappointment . . . o. s. frv.“ Mér er ómögulegt að trúa því, að höfundinum hafi verið nokkur alvara í þessari ákæru. En það er ekki nema tvennt, sem maður getur hugsað sér að þessi staðhæfing sé, og það er annaðhvort að hún sé mjög meinleg villa, eða, mjög meinleg ákæra. —

Ég vil skoða hana sem villu. En sé hún ákæra, þá ættum við að kynna okkur nöfn þeirra, sem 30 manna nefndina skipuðu, til að sannfæra sjálf oss um hverjir þeir voru, og hvort þeir voru þesskonar hugsandi menn, að þeir hefðu

